بسم الله الرحمن الرحيم

Í nafni Guðs, hins náðuga, hins miskunnsama.

# STUTT MYNDSKREYTT KYNNINGARHANDBÓK UM ÍSLAM.

Önnur útgáfa


I.A. Ibrahim

Almennir ritstjórar

**Doktor. Williham (Daoud) Peachy**

**Michael (Abdul-Hakim) Thomas**

**Tony (Abu-Khaliyl) Sylvester**

**Idris Palmer**

**Jamaal Zarabozo**

**Ali AlTimimi**

Vísindaritstjórar

**Prófessor Harold Stewart Kuofi**

**Prófessor F.A. State**

**Prófessor Mahjoub O. Taha**

**Prófessor Ahmad Allam**

**Prófessor Salman Sultan**

**Aðstoðar-Prófessor Professor H.O.Sindi**

Íslensk þýðing: Haukur Þór Þorvarðarson.

**Haukur.Thorvardarson@gmail.com**

**www.islamic-invitation.com**

Mynd á forsíðu: Meira en ein milljón múslíma frá löndum um allan heim biðst fyrir saman í Haram-moskunni í Mekka.

Mynd á baksíðu: Moska Múhameðs spámanns ﷺ í Medína.

## HÖFUNDARRÉTTUR



Bókasafn Bandríska Ríkisins Bókasrká Númer Bókar: 97-67654

ISBN: 9960-34-011-2

# EFNISYFIRLIT



## 1. kafli

Vitnisburðir um þau sannindi sem felast í Íslam.



## 2. kafli



## 3. kafli

# Formáli

Þetta vefsetur er stutt kynningarhandbók um Íslam og samanstendur af þremur köflum.

Fyrsti kaflinn, „ Vitnisburðir um þau sannindi sem felast í Íslam, “ svarar mikilvægum spurningum sem sumir spyrja:



A) Er Kóraninn orðrétt frá Guði kominn, opinberaður af honum?

B) Er Múhameð [1] sannarlega spámaður, sendur af Guði?

C) Er Íslam sannarlega trú frá Guði komin?

Í þessum kafla er greint frá sex mismunandi sönnunum fyrir þessu:

(1) Vísindaleg kraftaverk í hinni helgu bók, Kóraninum: Í þessum hluta eru reifaðar (með myndum) nokkrar nýlega uppgötvaðar vísindalegar staðreyndir, sem koma fram í Kóraninum sem opinberaðist fyrir fjórtán öldum.

(2) Sú erfiða þraut að semja nokkuð sem jafnast að fegurð á við kafla í hinni helgu bók Kóraninum: Í Kóraninum skorar Guð á mennina að skapa einn kafla sem jafnast að fegurð á við kafla í hinni helgu bók Kóraninum. Allt frá því Kóraninn var opinberaður fyrir fjórtán öldum hefur engum tekist að leysa þessa þraut, jafnvel þó að stysti kafli í Kóraninum (108. kafli) sé aðeins tíu orð.

[1] Eftirfarandi orð á arabísku merkja [Megi friður og blessanir hvíla yfir honum].

(3) Spádómar Biblíunnar um komu Múhameðs ﷺ , spámanns Íslams: Í þessum hluta eru reifaðir ýmsir þeir spádómar Biblíunnar sem spá fyrir um komu Múhameðs spámanns ﷺ.

(4) Vers í Kóraninum sem geta óorðinna atburða sem síðar rættust: Í Kóraninum er getið óorðinna atburða sem síðar rættust, t.d. sigurs Rómverja á Persum.

(5) Kraftaverk sem Múhameð spámaður ﷺ vann: Mörg kraftaverk vann Múhameð spámaður ﷺ. Um þau báru margir vitni.

(6) Fábrotnir lifnaðarhættir Múhameðs ﷺ: Hér kemur fram með skýrum hætti að Múhameð ﷺ var ekki falsspámaður kominn til að öðlast veraldleg gæði, frægð eða völd.

Af þessum sex sönnunum getum við dregið þá ályktun að:

- Kóraninn hlýtur að vera orðrétt frá Guði kominn, og opinberaður af honum.
- Múhameð ﷺ er sannarlega spámaður, sendur af Guði.
- Íslam er sannarlega trú frá Guði komin.

Viljum við vita hvort trú sé sönn eða föls ættum við ekki að byggja á tilfinningum, skoðunum eða hefðum. Við skyldum frekar byggja á rökhyggju og vitsmunum. Þegar Guð sendi spámenn sína studdi hann þá með kraftaverkum og jarteiknum sem sönnuðu að þeir væru sannlega spámenn sendir af Guði og að trúin sem þeir boðuðu væri sönn.

2. kaflinn, „ Hvernig má Íslam verða að gagni” reifar það gagn sem trúuðum einstaklingum stendur til boða, svo sem:

(1) Hliðið að eilífri paradís.

(2) Frelsun frá vítiseldinum.

(3) Sönn hamingja og innri friður.

(4) Fyrirgefning fornra synda.

Í 3. kaflanum, „Almennar upplýsingar um Íslam”, eru reifaðar almennar upplýsingar um Íslam, leiðréttar ýmsar ranghugmyndir um Íslam og algengum spurningum svarað, eins og:

- Hvað segir Íslam um hryðjuverk?
- Hver er staða konunnar í Íslam?

# 1. kafli

## Vitnisburðir um þau sannindi sem felast í Íslam

Guð studdi síðasta spámann sinn, Múhameð, ﷺ mörgum kraftaverkum og mörgum sönnunum þess að hann var sannarlega spámaður sendur af Guði. Guð studdi einnig síðustu opinberunarbók sína, Kóraninn, mörgum kraftaverkum til að sanna mönnunum að Kóraninn er orðrétt frá Guði kominn, opinberaður af honum, en ekki ritaður af nokkrum dauðlegum manni. Í þessum kafla eru reifaðar nokkrar sannanir þess.



**Hin helga bók, Kóraninn**

### 1) Vísindaleg kraftaverk í hinni helgu bók, Kóraninum

Kóraninn er orðrétt ræða Guðs sem hann opinberaði Múhameð spámanni sínum ﷺ fyrir tilstilli Gabríels engils. Múhameð ﷺ lærði Kóraninn utan að og las hann félögum sínum fyrir. Þeir lærðu hann einnig utan að og skrifuðu niður og fóru síðan yfir það sem skrifað var með Múhameð spámanni. ﷺ Einnig fór Múhameð spámaður ﷺ einu sinni á hverju ári, og tvisvar síðasta árið sem hann lifði, yfir Kóraninn með Gabríel engli. Margir eru þeir múslímar, og það fram á okkar daga, sem tekist hefur að læra Kóraninn utan að eftir opinberun hans. Þeir yngstu sem hefur tekist að læra hann allan utan að eru um tíu ára gamlir. Ekki hefur einum stafkrók í Kóraninum verið breytt í aldanna rás.

Kóraninn, sem opinberaðist fyrir fjórtán öldum, getur staðreynda sem vísindamenn hafa ekki staðfest eða uppgötvað fyrr en tiltölulega nýlega. Þetta sannar okkur án nokkurs vafa að Kóraninn hlýtur að vera orðrétt Guðs boðun, boðaður Múhameð spámanni af honum, og að Múhameð samdi Kóraninn ekki né

annar dauðlegur maður. Þetta sannar einnig að Múhameð var sannarlega spámaður Guðs. Það er ómögulegt að nokkur manneskja gæti hafa haft sömu þekkingu fyrir fjórtán öldum og menn hafa nú öðlast með nýjustu vísindalegu aðferðum og hátæknibúnaði. Nokkur dæmi fylgja hér á eftir:

## A) Það sem Kóraninn segir um þróun fósturvísa

Í hinni helgu bók, Kóraninum, talar Guð um þróunarferli fósturvísa í mönnum.

Vér skópum manninn af leir. Settum hann síðan sem Lifandi dropa tryggan stað. Því næst breyttum Vér dropanum í alaqah (hlaupið blóð) og alaqah í mughdah (tuggið efni)... (Kóran, 23:12-14)[1]

Arabíska orðið „ *alaqah*" getur haft þrjár merkingar:

(1) Blóðsuga, (2) hlutur sem svífur í lausu lofti , (3) blóðkökkur.

Þegar við berum blóðsugu saman við fósturvísi í alaqah-stiginu getum við fundið líkindi milli þessara tveggja[2] mismunandi hluta, eins og sjá má á mynd 1. Á þessu þróunarstigi fær fósturvísirinn einnig næringu úr blóði móðurinnar líkt og blóðsuga nærist á blóði annarra dýra.[3]

Önnur merking orðsins „ *alaqah*" er „ hlutur sem svífur í lausu lofti". Þetta sjáum við á myndum 2 og 3, þ.e. að fósturvísirinn flýtur í legvökva móðurinnar á alaqah-stiginu.

---

[1] Athugið að textinn sem er í sviga ...... í þessari bók er aðeins þýðing á merkingu versins í Kóraninum. Upprunalega versið er þó á arabísku.
[2] *The Developing Human,* Moore and Persaud, 5. útg., bls. 8.
[3] *Human Development as Described in the Qur´an and Sunnah*, Moore og fleiri, bls. 36.




Mynd 1: Þessi teikning sýnir hversu lík blóðsuga og fósturvísir eru á alaqah-stiginu. (Teikning af blóðsugu í bókinni „*Human Development as Desribed in the Qur'an and Sunna*"„ Moore og fleiri (et.al) , bls. 37, einföldun úr „ *Integrated Principles of Zoology*" Hickman og fleiri. Teikning af fósturvísi úr „*The Developing Human*", Moore og Persaud, 5. útg., bls. 73.)




Mynd 2: Við sjáum á þessari mynd að fósturvísirinn er fljótandi í móðurkviðnum á alaqah-stiginu. („*The Developing Human*", Moore, 3. útg., bls. 66.)




Mynd 3: Á þessari smásjármynd sést að fósturvísirinn er fljótandi í móðurlífinu (merktur B) á alaqah-stiginu (um 15 daga gamall). Raunstærð fósturvísisins er 0.6 mm („*The Developing Human”*, Moore, 3. útg., bls. 66, úr *Histology*, Leeson og Leeson.)

Þriðja merking orðsins „*alaqah*"  er blóðkökkur. Við sjáum að ytra útlit fósturvísisins og belgsins utan um hann er á meðan á alaqah-stiginu stendur svipað útliti blóðkekks, vegna þess að það er tiltölulega mikið blóð í fósturvísinum á fyrstu dögum fóstursins[1]. Blóðið í fósturvísinum fer heldur ekki á hreyfingu fyrr en eftir þrjár vikur[2]. Þannig er blóðkökkur svipaður fósturvísi á þessu þróunarstigi.




Mynd 4: Myndin sýnir frumstætt æðakerfi fósturvísis á alaqah-stigi. Ytra útlit fósturvísisins og belgsins utan um hann er svipað útliti blóðkekks vegna þess tiltölulega mikla blóðs sem er í fósturvísinum. („*The Developing Human”*, Moore, 5. útg., bls. 65.)

---

[1] *Human Development as Described in the Quran and Sunnah*, Moore og fleiriog fleiri, bls. 37-38.
[2] *The Developing Human*, Moore and Persaud, 5. útg., bls. 65.

Þessar þrjár merkingar orðsins „*alaqah*” vísa á nákvæman hátt til lýsinga á fósturvísi á alaqah-stiginu.

Næsta stig sem getið er í versinu sem áður var nefnt er mudghah-stigið. Arabíska orðið „*mudghah*” þýðir „tuggið efni” [1]. Ef tekið væri tuggið tyggigúmmí og borið saman við fósturvísi á mudghah-stiginu kæmi í ljós að fósturvísir á mudghah-stigi bæri keim af tuggnu efni. Vísindaleg skýring á þessu er að frumdeildir aftan á fósturvísinum „líta nokkurn veginn út eins og tannaför á tuggnu efni” . (Sjá myndir 5 og 6.)

Hvernig gat Múhameð ﷺ mögulega vitað þetta allt fyrir 1400 árum? Vísindin hafa fyrst uppgötvað þetta á síðustu árum með hjálp háþróaðra rannsóknatóla og öflugra smásjáa sem voru, eins og allir vita, ekki til fyrir 1400 árum. Hamm og Leeuwenhoek voru fyrstu vísindamennirnir sem sáu sæðisfrumur („spermatozoa”) í endurbættri smásjá árið 1677 (meira en 1000 árum eftir daga Múhameðs). Þeir héldu þá ranglega að sæðisfruman innihéldi frummótað mannslíkan sem myndi vaxa ef það næði að synda upp fæðingarveginn.[2]



Mynd 5: Ljósmynd af fósturvísi á mudghah-stiginu (28 daga gamall). Fósturvísirinn lítur á þessu stigi út eins og tuggið efni vegna þess að frumdeildir aftan á fósturvísinum líta út eins og tannaför. Raunstærð fósturvísisins er 4 mm („*The Developing Human*”, Moore og Persaud, 5. útg, bls. 82, frá prófessor Hideo Nishimura, Kyoto University, Kyoto, Japan.)

[1] *The Developing Human*, Moore and Persaud, 5. útg., bls. 8.
[2] *The Developing Human*, Moore og Persaud, 5. útg., bls. 9.




Mynd 6: Þegar borin eru saman fósturvísir á mudghah-stiginu og tyggigúmmí kemur í ljós að báðir hlutir eru mjög svipaðir. A) Teikning af fósturvísi á mudghah-stiginu. Við getum séð að frumdeildir aftan á fóstrinu líta út eins og tannaför. („*The Developing Human*", Moore og Persaud, 5. útg., bls. 79.) B) Mynd af tyggigúmmíi sem búið er að tyggja.

Keith L. Moore, sem er prófessor emeritus, er einn fremsti vísindamaður á sviði rannsókna í líffærafræði og fósturfræði. Hann er höfundur bókarinnar *„The Developing Human"* sem hefur verið þýdd á átta tungumál. Þessi bók er vísindalegt grundvallarrit og hefur unnið til verðlauna sem besta bók skrifuð af einstaklingi. Höfundurinn, dr. Keith L. Moore, er prófessor emeritus í líffærafræði og frumulíffræði við Háskólann í Toronto í Kanada. Þar var Moore aðstoðardeildarforseti í læknadeild. Þá hefur hann síðustu átta árin verið deildarforseti líffærafræðideildar. Árið 1984 fékk hann hin virtu verðlaun „J.C.B.

Grant Award”  frá Félagi líffærafræðinga í Kanada. Moore hefur einnig stjórnað mörgum alþjóðlegum stofnunum eins og „Canadian and American Association of Anatomists” og „The Council of the Union of Biological Sciences”.

Árið 1981, á sjöundu læknaráðstefnunni í Dammam í Sádí-Arabíu, sagði prófessor Moore: „Það er mér mikil ánægja að hafa stuðlað að því að skýra þær staðhæfingar sem hafa verið skrifaðar í Kóraninn um þróun mannsins. Mér er ljóst að þessar staðhæfingar hljóta að hafa borist Múhameð frá Guði vegna þess að flestar þessar staðhæfingar voru ekki uppgötvaðar fyrr en mörgum öldum síðar. Þetta er mér sönnun þess að Múhameð hlýtur að hafa verið sendiboði Guðs. „

Prófessor Moore var þá spurður eftirfarandi spurningar: „Þýðir þetta að þú trúir að Kóraninn sé orð Guðs?”  Hann svaraði „Það vefst ekki fyrir mér.”

Á annarri ráðstefnu sagði prófessor Moore: „...Vegna þess að þróun fósturvísa er flókið ferli stöðugra breytinga á meðan á þróun stendur legg ég til grunn að nýrri vísindalegri flokkun í þróun fósturvísa og þá byggt á Kóraninum og *Sunnah* (það sem Múhameð sagði, gerði og samþykkti). Slíkt kerfi er einfaldara, skiljanlegra og í samræmi við þá þekkingu sem vísindin hafa á fósturvísum. Nákvæmar rannsóknir á Kóraninum og *hadith* (sem eru trúverðugar frásagnir félaga spámannsins af því sem Múhameð sagði, gerði og samþykkti) hafa á síðustu fjórum árum leitt í ljós hreint út sagt ótrúlega nákvæma lýsingu á hinu líffræðilega ferli þróunar fósturvísa, miðað við að það var skrifað á 7. öld e. Kr. Aristóteles, sem er upphafsmaður vísindalegra rannsókna á fósturvísum, dró samlíkingar af hænueggi á 4. öld f. Kr., en lýsti ekki þróunarstigum í smáatriðum. Lítið sem ekkert var vitað um þróunarstig og flokkun fósturvísa þangað til á 20. öldinni. Ekki er hægt að staðhæfa miðað við þessi vísindalegu rök að lýsingar á fósturvísum í Kóraninum geti verið byggðar á vitneskju frá 7. öld. Einu skynsamlegu rökin finnst mér vera að þessar lýsingar hljóti að hafa opinberast Múhameð fyrir tilstilli Guðs. Múhameð gæti ekki hafa

vitað þessar staðreyndir sjálfur vegna þess að hann var ólæs og óskrifandi og hafði enga vísindalega þjálfun.”

## B) Það sem Kóraninn segir um fjöll

Bók sem heitir *Jörð* („Earth”) er notuð sem grundvallarkennslubók í mörgum háskólum heims. Einn tveggja höfunda er prófessor emeritus Frank Press. Hann var vísindalegur ráðgjafi Jimmy Carters fyrrverandi forseta Bandaríkjanna og forseti „National Academy of Science” í Washington í 12 ár. Í bók Press er staðhæft að fjöll hafi rætur. Þessar rætur liggja djúpt undir fjallinu. Því eru fjöllin mótuð eins og pinnar. (Sjá skýringarmyndir 7, 8 og 9.)

Svona er fjöllum lýst í Kóraninum, Guð sagði í Kóraninum:

﴾ Breiddum Vér ekki úr jörðinni eins og hvílu, reistum Vér ekki fjöllin eins og tjaldsúlur? ﴿ (Kóran 78:6-7)




Skýringarmynd 7: Fjöll hafa rætur djúpt undir yfirborði jarðar (*Earth*, Press og Siever, bls. 413.)




Skýringarmynd 8: Fjöllin eru eins og pinnar og hafa rætur djúpt undir yfirborði jarðar. („*Anatomy of the Earth”*, Cailleux, bls. 220.)




Skýringarmynd 9: Önnur skýringarmynd sem sýnir hvernig fjöll eru mynduð eins og pinnar, vegna djúpra róta undir fjöllunum. („*Earth Science”*, Tarbuck og Lutgens, bls. 158.).

Nýjustu kenningar í jarðfræði hafa fyrir satt að það séu rætur djúpt undir fjöllum (sjá skýringarmynd 9.) og að þessar rætur séu stærri og nái mörgum sinnum lengra niður en hæð fjallsins er yfir sjávarmáli. Með þetta að leiðarljósi væri kannski réttara að kalla fjöll „pinna”  vegna þess að fjöllin eru negld eins og pinnar niður í jarðskorpuna. Samkvæmt sögu vísindanna var þessi kenning um að fjöllin hefðu djúpar rætur fyrst sett fram á seinni hluta 19. aldar.

Fjöll hafa líka því mikilvæga hlutverki að gegna að styrkja jarðskorpuna. Þau koma í veg fyrir stöðuga jarðskjálfta. Guð sagði í Kóraninum:

﴾ Hann setti traust fjöll á jörðina svo að hún bifaðist ekki úr stað með ykkur. ﴿. (Kóran, 16:15)

Seinni tíma kenningar um jarðskorpuhreyfingar halda því fram að fjöll geri jarðskorpuna stöðugri. Þessi kenning um að fjöll geri jarðskorpuna stöðugri var mótuð í sambandi við rannsóknir á jarðskorpuhreyfingum upp úr 1960.

Gæti einhver á tímum Múhameðs spámanns hafa vitað um rétta mótun fjalla? Gat einhver ímyndað sér að stórt og mikið fjall hefði í raun rætur sem næðu djúpt ofan í jörðina eins og vísindamenn halda nú fram? Margar bækur um jarðfræði lýsa í umfjöllun sinni um fjöll aðeins því sem er sýnilegt á yfirborði jarðar. Þetta er vegna þess að þessar jarðfræðibækur voru ekki skrifaðar af sérfræðingum. En nútímajarðfræði hefur tekist að sanna að versin í Kóraninum eru rétt.



## C) Það sem Kóraninn segir um upphaf alheimsins

Athuganir og kenningar í heimsmyndarfræðum staðfesta svo ekki verður um villst að í upphafi hafi alheimurinn aðeins verið reykský (þ.e. ský úr ógagnsæjum og heitum gastegundum)[1]. Þessi kenning er ein af ótvíræðum grunnkenningum heimsmyndarfræða nútímans. Vísindamenn hafa séð hvernig stjörnur myndast úr afgöngum af reyknum. (Sjá skýringarmyndir 10 og 11.)

[1] *The First Three Minutes, a Modern View of the Origin of the Universe*, Weinberg, bls. 94-105.

Lýsandi stjörnur á himnum, sem við sjáum á nóttunni, voru í reyknum eins og allur alheimurinn. Guð segir í Kóraninum.

﴾ Síðan hélt Hann upp til himins sem var reykhaf... ﴿ (Kóraninn 41:11)



Skýringarmynd 10: Ný stjarna að myndast úr gas- og rykskýi (stjörnuþoka), en þessi stjörnuþoka er leifar reyks sem var upphaf alheimsins. („*The Space Atlas*", Heather og Henbest, bls. 50.)



Skýringarmynd 11: Lagoon-stjörnuþokan er ský gert af gasi og ryki. Stjörnuþokan er 60 ljósár að þvermáli. Útfjólubláa ljósið sem kemur frá stjörnuþokunni stafar af heitum stjörnum sem hafa myndast innan stjörnuþokunnar. („*Horizons, Exploring the Universe*", Seeds, mynd 9, úr Association of Universities for Research in Astronomy, Inc.)

Vegna þess að jörðin og himnarnir fyrir ofan (sólin, máninn, stjörnunnar, pláneturnar, sólkerfin o.s.frv.) eru gerð úr þessum sama reyk getum við staðhæft að jörðin og himininn eru ein samofin heild. Úr þessum einsleita reyk mótuðust þau og aðskildust síðan. Svo segir Guð í Kóraninum:

Er hinum vantrúuðu eigi ljóst að himnarnir og jörðin voru ein samfella, síðan aðskildum Vér þau... , (Kóran, 21:30)

Dr. Alfred Kroner er einn af fremstu jarðfræðingum í heiminum. Hann er prófessor í jarðfræði og er forseti jarðfræðivísindadeildarinnar við Johannes Gutenberg-háskólann í Mainz í Þýskalandi. Kroner sagði að „miðað við uppruna Múhameðs … finnst mér óhugsandi að hann hefði getað vitað um sameiginlegan uppruna alheimsins vegna þess að vísindamenn hafa fyrst uppgötvað það á síðustu árum með hjálp afar flókinnar og háþróaðrar tæknilegrar aðferðafræði” . Einnig sagði hann: „Maður sem ekki vissi neitt um kjarneðlisfræði fyrir 1400 árum hefði að mínu mati ekki mögulega getað komist að þeirri niðurstöðu að jörðin og himnarnir hefðu sama uppruna.”

## D) Það sem Kóraninn segir um hvelaheila

Ein frásögn Guðs í Kóraninum er um vantrúuð illmenni sem bönnuðu Múhameð spámanni að biðja við Kaaba.

Ef hann snýr ekki við drögum Vér hann á ennistoppnum, hinum synduga, ljúgandi ennistoppi... (Kóran, 96:15-16)

Af hverju er enninu lýst í Kóraninum sem sé það fullt af lygum og synd? Hvers vegna stendur ekki að maðurinn sjálfur hafi logið og syndgað? Hver eru tengslin milli ennisins, lyga og syndsemi?

Skyggnumst inn í hauskúpuna um ennið. Þar er það svæði í heilanum sem er kallað hvelaheili. (Sjá mynd 12.) Hvað segir lífeðlisfræðin um starfsemi hvelaheila? Í bókinni „Essentials of *Anatomy & Physiology*” stendur: „Hvötin að því að skipuleggja gjörð verður til í fremri hluta ennisblaðsins, fremst í heilaberki. Þarna er tengslasvæði heilans ...” [1] Einnig stendur í bókinni: „Með tilliti til sambands þess við hvötina er ennissvæðið talið vera miðstöð árásarhneigðarinnar ...” [2]




Mynd 12: Sneiðmynd af vinstri hluta heilabarkar. Ennissvæðið fremst í heilaberkinum. („*Essentials of Anatomy & Physiology*,” Seeley og others, bls. 210.)

Hlutverk þessa svæðis í heilaberkinum er að skipuleggja, hvetja til og hefja góða eða vonda hegðun og þar með ljúga eða segja satt. Því er rökrétt að segja að ennið

[1] *Essentials of Anatomy & Physiology*, Seeley og fleiri, bls. 211. Einnig *The Human Nervous System*, Noback og fleiri, bls. 410-411.
[2] *Essentials of Anatomy & Physiology*, Seeley og fleiri, bls. 211.

ljúgi og syndgi þegar einhver lýgur eða syndgar. Eins og stendur í Kóraninum: „... lygið og syndugt naseyah (ennið)!”

Vísindamenn gerðu þessa uppgötvun um svæðið fremst í heilaberkinum fyrir sextíu árum samkvæmt prófessor Keith L. Moore.[1]

## E) Það sem Kóraninn segir um innhöf og fljót

Nýjustu vísindi hafa uppgötvað að það séu skil þar sem tvö ólík höf mætast. Þessi skil deila höfunum þannig að hvort um sig heldur sínum eiginleikum, t.d. hita, saltmagni og þéttleika.[2] Sem dæmi má nefna að sjórinn í Miðjarðarhafinu er heitari, saltari og hefur ekki sama þéttleika og Atlantshafssjórinn. Þegar Miðjarðarhafssjórinn mætir Atlantshafinu ofan á Gíbraltarþröskuldinum, þá færist hann nokkur hundruð kílómetra inn í Atlantshafið á 1000 m dýpi með sína eiginleika. Miðjarðarhafssjórinn heldur jafnvægi á þessu dýpi.[3] (Sjá skýringarmynd 13.)




Skýringarmynd 13: Eins og sést á myndinni fer Miðjarðarhafssjórinn inn í Atlantshafið á 1000 m dýpi, yfir Gíbraltarþröskuldinn, með sína eiginleika, heitara, saltara og með minni þéttni, vegna skilanna sem þarna eru á milli. Hitastigin á myndinni eru mæld í Celsíusgráðum (C°). (Marine Geology, Kuenen, bls. 43)

---

[1] *Al-E'jaz al-Elmy fee al-Naseyah* (The Scientific Miracles in the Front of the Head), Moore og fleiri, bls. 41.
[2] *Principles of Oceanography*, Davis, bls. 92-93.
[3] *Principles of Oceanography*, Davis, bls. 93.

Þó að þetta séu þungar öldur, sterkir straumar og sjávarföll blandast höfin ekki.

Hin helga bók Kóraninn nefnir að það séu skil á milli hafa þar sem þau mætast og að þau blandist ekki. Guð sagði:

﴾ Hann hefur hleypt fram tveim höfum sem mætast. Það er tálmi á milli þeirra sem þau fá ekki yfirstigið ﴿. (Kóran, 55:19-20)

En þegar skil eru nefnd í Kóraninum á milli fersk- og saltvatns er talað um skilvegg. Guð segir í Kóraninum:

﴾ Það var Hann sem lét höfin tvö flæða, annað ferskt og sætt, hitt salt og beiskt, og setti hindrun og skilvegg á milli þeirra. ﴿ (Kóran 25:53)

Maður gæti spurt þeirrar spurningar: Af hverju kallar Kóraninn það skilvegg sem skilur fersk- og saltvatn að, en ekki þegar talað er um skil milli tveggja hafa?

Nýjustu vísindi hafa uppgötvað að í ármynni, þegar ferskt (sætt) og salt vatn mætist, verður ekki sama orsakasamband á milli og þegar tvö höf mætast. Það hefur verið uppgötvað að munurinn á fersku og söltu vatni í ármynni er: „belti þar sem skörp þéttniskil eru milli laga.”[1] Þessi skilveggur (skilabelti) hefur annað saltmagn en ferskvatn eða saltvatn.[2]

---

[1] *Oceanography*, Gross, bls. 242. Sjá einnig *Introductory Oceanography*, Thurman, bls. 300-301.
[2] *Oceanography*, Gross, bls. 244, and *Introductory Oceanography*, Thurman, bls. 300-301.




Skýringarmynd 14: Langskurðarmynd sem sýnir saltmagn (mælt á þúsund ‰ bili) í ármynni. Sjá má skilin (skilabeltin) milli fersk- og saltvanins. („*Introductory Oceanography*" Thurman, bls. 301.)

Þessar uppgötvanir hafa komið fram mjög nýlega með hjálp háþróuðustu tækni og vísinda við að mæla hita, saltmagn, þéttleika, súrefnisupplausn o.s.frv. Mannsaugað getur ekki séð þessi skil í vatninu með berum augum, þ.e. ferskvatn, saltvatn og skilabelti.

## F) Það sem Kóraninn segir um úthöf og undiröldur

Guð segir í Kóraninum:

﴾ Eða (ástand hins vantrúaða) sem dimma í djúpu hafi. Það er þakið öldum og ofan á þeim eru öldur og yfir grúfa ský. Ef hann réttir fram hönd sína fær hann ekki greint hana. ﴿ (Kóran, 24:40)

Í þessu versi er getið myrkursins í hafdjúpunum þar sem menn sjá ekki handa skil. Þetta er myrkrið 200 m undir sjávarmáli og neðar. Á þessu dýpi er nær engin birta. (Sjá skýringarmynd 15.) Og á meira en 1000 m dýpi er engin birta.[1] Manneskja

[1] (1) „*Oceans*", Elder og Pernetta, bls. 27.

getur aðeins kafað niður á 40 m dýpi nema þá í kafbát eða með sérstökum útbúnaði. Menn geta ekki lifað á meira en 200 m dýpi.




Skýringarmynd 15: Milli 3 og 30 prósent af sólarljósi endurvarpast við yfirborð sjávar. Eftir fyrstu 200 m eru nær allir sjö litir litrófsins horfnir í myrkrið nema bláa ljósið. (Oceans, Elder og Pernetta, bls. 27.)

Vísindamenn hafa nýlega uppgötvað þetta myrkur með sérstökum útbúnaði og kafbátum sem hafa gert þeim kleift að kafa í hafdjúpin.

Svo má skilja af orðunum í versinu fyrrgreinda, „... í djúpu hafi. Það er þakið öldum, og ofan á þeim eru öldur, og fyrir ofan þær eru ský ... “ , að hafdjúpin eru þakin öldum, og fyrir ofan þær öldur eru aðrar öldur. Það er ljóst að seinna öldulagið eru yfirborðsöldur sem við sjáum vegna þess að í versinu kemur fram að fyrir ofan seinna öldulagið eru skýin. En hvað með fyrsta öldulagið? Vísindamenn hafa nýlega uppgötvað undiröldur sem „verða til á þéttleikaskilflötum, milli laga með mismunandi þéttleika”[1]. (Sjá skýringarmynd 16.)

[1] *Oceanography*, Gross, bls. 205.

Undiröldurnar hylja hafdjúpið undir yfirborði hafsins vegna þessa að dýpri höfin hafa meiri þéttleika eins og hafið fyrir ofan þau. Undiröldur eru eins og yfirborðsöldur. Þær geta einnig myndað öldur eins og yfirborðsöldur. Mannsaugað greinir ekki undiröldur, en það er hægt að mæla þær með því að rannsaka hitastig og saltmagn á þessu dýpi.[1]




Skýringarmynd 16. Undiröldur á skilfleti milli tveggja laga vatns með mismunandi þéttleika. Annað lagið er þétt (það neðra), hitt ekki eins þétt (hið efra). *(„Oceanography” Gross, bls. 204.)*

## G) Það sem Kóraninn segir um ský

Vísindamenn hafa rannsakað mismunandi skýjagerðir og hafa uppgötvað að regnský myndast eftir ákveðnu föstu kerfi sem tengist ólíkum vindum og skýjagerðum.

[1] (3) *Oceanography*, Gross, bls. 205.

Ein gerð regnskýja eru skúraský. Veðurfræðingar hafa rannsakað hvernig skúraský myndast, hvernig skúraský mynda rigningu, hagl og eldingar.

Þeir hafa komist að því að skúraský fara í gegnum eftirfarandi stig þegar þau framleiða rigningu:

**1) Vindurinn blæs skýjunum til:** Skúraský taka að myndast þegar vindurinn blæs smærri skýjum (bólstraskýjum) saman. (Sjá skýringarmyndir 17 og 18.)




Skýringarmynd 17: Gervihnattarmynd af skýjum sem leita saman á svæðum B, C og D. Örvarnar á myndinni sýna vindáttina. („The Use of Satellite Pictures in Weather Analysis and Forecasting" Anderson og fleiri, bls. 188.)



Skýringarmynd 18: Skýjatásur (bólstraský) sem leita saman nálægt sjóndeildarhringnum, þar sem má sjá stórt skúraský. („Clouds and Storms” Ludlam, mynd 7.4.)

**2) Sameining:** Skýjatásur mynda saman eitt stórt ský.[1] (Sjá skýringarmyndir 18 og 19.)




Skýringarmynd 19: (A) Einangraðar skýjatásur (bólstraský). (B) Þegar skýjatásur sameinast, þá vex uppstreymi í stóra skýinu þannig að skýið bunkast. Vatnsdroparnir eru punktamerktir. („The Atmosphere”, Anthes og fleiri, bls. 269.)

[1] Sjá: The Atmosphere, Anthes og fleiri, bls. 268-269, og Elements of Meteorology, Miller and Thompson, bls. 141.

**3) Bunkun**: Þegar skýjatásur sameinast eykst uppstreymi í stóra skýinu. Uppstreymið nálægt miðju skýsins er meira en utar í því.[1] Þetta uppstreymi gerir að verkum að skýið mótast í lóðrétta stefnu þannig að það er eins og skýin staflist upp. (Sjá skýringarmyndir 19 (B), 20 og 21.) Lóðrétt mótun gerir að verkum að skýið leitar inn á kaldari svæði andrúmsloftsins þar sem vatnsdropar og hagl myndast og verða stærri og stærri. Þegar þessir vatnsdropar og haglið eru orðin of þung fyrir uppstreymið falla þau til jarðar sem regn eða hagl o.s.frv.[2]




Skýringamynd 20: Skúraský.  Eftir að skýið bunkast rignir úr því. („*Weather and Climate*”, Bodin, bls. 123.)

Guð segir í Kóraninum:

﴿ Hefurðu ekki séð hvernig Guð hreyfir skýin til, safnar þeim síðan saman og hleður í bólstra sem steypa niður regnskúrum? ﴾ (Kóran, 24:43)

[1] Uppstreymið í miðju skýsins er meira vegna þess að þar er hlýrra en utar í skýinu.
[2] Sjá: The Atmosphere, Anthes og fleiri, bls. 269, og Elements of Meteorology, Miller and Thompson, bls. 141-142.

Veðurfræðingar hafa fyrst nýlega komist að þessum niðurstöðum um skýjamyndun, formgerð og hlutverk með því að styðjast við þróuð tæki eins og flugvélar, gervihnetti, tölvur, veðurbelgi og annan útbúnað, útbúnað sem er hannaður til að rannsaka vind, vindátt, getur mælt raka, breytingar á raka og getur sagt til um þrýstingsstig og breytingar á þrýstingi í andrúmsloftinu.



Skýringarmynd 21: Skúraský (A Colour Guide to Clouds, Scorer og Wexler, bls. 23.)

Framangreint vers getur um hagl og eldingar eftir að hafa drepið á ský og rigningu:

...Hann sendir niður haglél frá skýjafjöllum af himnum og hæfir hvern sem Honum þóknast og þyrmir þeim sem Hann vill. Leiftrið af eldinum þess blindar menn næstum. (Kóran, 24:43)

Veðurfræðingar hafa komist að því að skúraský sem mynda haglél ná allt að 25,000 til 30,000 feta hæð (4,7 til 5,7 mílur)[1] og minna á fjöll, eins og stendur í Kóraninum, „... og hann sendir hagl niður frá fjöllum (skýjum) á himnum... “ (Sjá skýringarmynd 21, að ofan.)

---

1 Elements of Meteorology, Miller and Thompson, bls. 141.

Þetta vers vekur þá spurningu: Af hverju stendur „eldingar þess.“ Þegar átt við haglél? Þýðir þetta að hagl eigi mikinn þátt í myndun eldinga? Hvað segir bókin „Meteorology Today”  um þetta? Í bókinni stendur að ský verði rafmögnuð þegar hagl fer í gegnum þau þar sem eru undirkældir dropar og ískristallar. Þegar vatnsdropar rekast á hagl frjósa þau saman og mynda bundinn hita. Sá bundni hiti gerir að verkum að yfirborð hagls er heitara en yfirborð ískristallanna í kring. Þegar hagl kemst í snertingu við ískristal gerist merkilegt fyrirbrigði. Rafeindaflæði verður frá kaldari hlutnum að heitari hlutnum. Þar af leiðandi verður haglið fyrir neikvæðri hleðslu. Sömu áhrif verða þegar undirkældir vatnsdropar komast í snertingu við hagl og ísagnir með jákvæða hleðslu brotna af. Öreindirnar sem eru léttari og með jákvæða hleðslu berast síðan með uppstreyminu upp eftir skýinu. Haglið með neikvæðri hleðslu sígur neðst í skýið og því verður neðri hluti skýsins með neikvæða hleðslu. Neikvæða hleðslan myndar eldingar.[1] Með þetta fyrir framan okkur getum við ályktað að hagl eigi stóran þátt í myndun eldinga.



Þessar upplýsingar um myndun eldinga birtust nýlega. Fram yfir 1600 voru hugmyndir Aristótelesar um veðurfræði allsráðandi. Til dæmis sagði Aristóteles að andrúmsloftið innhéldi tvenns konar gufur, rakar gufur og þurrar gufur. Einnig sagði Aristóteles að þrumur væru hljóðið sem yrði til þegar árekstrar yrðu á milli þurru gufanna og nærliggjandi skýja og að eldingar væru dauft endurskin logans og bjarmans af þurrum gufum.[2] Þessar hugmyndir voru m.a. allsráðandi í veðurfræði eftir að Kóraninn opinberaðist fyrir fjórtán öldum.

[1] Meteorology Today, Ahrens, bls. 437.
[2] The Works of Aristotle Translated into English: Meteorologica, 3. bindi, Ross og fleiri, bls. 369a-369b.

## H) Ummæli vísindamanna um vísindaleg kraftaverk í hinni helgu bók, Kóraninum

Hér á eftir koma ummæli vísindamanna um vísindaleg kraftaverk í hinni helgu bók, Kóraninum. Öll þessi ummæli koma af myndbandi sem heitir „This is the Truth” . Á þessu myndbandi má sjá og heyra vísindamenn fara með ummælin.

1) Dr. T. V. N. Persaud er prófessor í líffærafræði, einnig prófessor í barnalækningum og barnaheilsu og prófessor í fæðingarfræði við Háskólann í Manitoba í Winnipeg í Kanada. Þar var hann deildarforseti líffærafræðideildar í 16 ár. Hann er vel þekktur á sínu sérsviði. Hann hefur ritað eða ritstýrt útgáfu 22 kennslubóka og hann hefur birt meira en 181 vísindagrein. 1991 tók hann á móti einum virtustu verðlaunum sem veitt eru í líffærafræði í Kanada, „J.C.B Grant Award from the Canadian Association of Anatomists” . Þegar hann var spurður um vísindaleg kraftaverk í Kóraninum, sem hann hafði rannsakað, þá sagði hann eftirfarandi:

„Mér var skýrt svo frá að Múhameð hefði verið afar venjulegur maður. Hann kunni ekki að lesa og kunni ekki að skrifa. Hann var því ómenntaður. Og þetta var fyrir tólf hundruð [fjórtán hundruð reyndar] árum. Þarna kemur ómenntaður maður fram með yfirlýsingar og fullyrðingar um náttúruvísindi sem eru ótrúlega nákvæmar. Ég get ekki fyrir mitt leyti séð hvernig það geti orðið fyrir einhverja tilviljun. Nákvæmnin er of mikil of oft og ég á ekki frekar en dr. Moore neitt erfitt með að telja að það sé guðlegur innblástur eða opinberun sem vísaði honum veginn.”

Persaud hefur einnig vitnað í vers í Kóraninum og í „hadith” eða það sem spámaðurinn Múhameð ﷺ sagði. Einnig hefur hann vitnað bæði í „hadith” og Kóraninn á ýmsum ráðstefnum.

2) Dr. Joe Leigh Simpson er forseti fæðingarfræði- og kvensjúkdómafræðideildar og prófessor í sameinda- og erfðafræði við Baylor College of Medicine í Houston

Texas, Bandaríkjunum. Áður var hann prófessor í fæðingar- og kvensjúkdómafræði við Háskólann í Tennessee í Memphis í Bandaríkjunum. Einnig var hann forseti American Fertility Society. Hann hefur tekið á móti mörgum verðlaunum, þar á meðal „Association of Professors of Obstetrics and Gynecology Public Recognition Award" árið 1992. Simpson hefur rannsakað eftirfarandi ummæli Múhameðs spámanns ﷺ:

{Öllum hlutum sköpunar ykkar er safnað saman í móðurkviði móður ykkar á fjörtíu dögum...}[1]

{Þegar fjörtíu og tvær nætur hafa liðið frá fósturvísinum sendir Guð engil til hans sem mótar fósturvísinn og skapar hjá honum heyrn, sjón, hörund, hold og bein...}[2]

Simpson rannsakaði ítarlega þessi ummæli Múhameðs spámanns ﷺ . Það fyrsta sem hann tók eftir var að fjörutíu dagar eru greinilega dagarnir sem það tekur fyrir fósturvísi að skapast og þróast. Honum þótti einkum mikið til um nákvæmnina í þessum ummælum Múhameðs spámanns ﷺ. Á meðan á einni ráðstefnunni stóð gaf hann eftirfarandi álit á því sem hann hafði rannsakað:

„Þannig að þetta tvennt sem Múhameð spámaður sagði og áður er getið er nákvæm áætlun um meginatriðin í þróun fósturvísis fyrstu 40 dagana. Enn tel ég komið að kjarna málsins sem aðrir ræðumenn hafa gert hvað eftir annað í morgun: Þessi orð urðu ekki sögð á grundvelli þeirrar vísindaþekkingar sem fyrir lá þegar þau voru rituð. Því hygg ég að ekki aðeins stangist þarna á erfðafræðin og trúarbrögðin heldur geti trúarbrögðin leiðbeint vísindunum með því að opinberuninni sé beitt ásamt hefðbundnum vísindalegum aðferðum, því að í Kóraninum finnist

[1] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2643 og Saheeh Al-Bukhari #3208. Athugið: Það sem er á milli sviga {...} í þessari handbók er þýðing á því sem Múhameð spámaður ﷺ sagði. Athugið einnig að # táknið merkir númerið á viðkomandi hadith. Hadith er staðfest frásögn félaga Múhameðs spámanns ﷺ um hvað hann sagði, gerði og hafði velþóknun á.

[2] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2645.

fullyrðingar sem öldum seinna reynast réttar og styðji það að Kóraninn sé frá Guði kominn.”

3) Dr. E. Marshall Johnson er prófessor emeritus í líffærafræði og þróunarlíffræði við Thomas Jefferson-háskóla í Philadelphíu í Pennsylvaníu í Bandaríkjunum. Í 22 ár var hann prófessor í líffærafræði, deildarforseti líffærafræðideildar og stjórnandi Daniel Baugh-stofnunarinnar. Hann var líka forseti Teratology Society. Hann hefur ritað meira en 200 greinar. Árið 1981, á 7. læknaráðstefnunni í Dammam í Sádí-Arabíu, sagði prófessor Johnson er hann kynnti rannsóknir sínar:

„Samantekt: Kóraninn lýsir ekki eingöngu ytra útliti fósturvísis heldur leggur áherslu á innri þróun, stigbreytingu í fósturvísinum, tilurð hans og þroska, og undirstrikar stóruppgötvanir í nútímavísindum.”

Einnig sagði hann: „Ég get sem vísindamaður aðeins fengist við áþreifanlega hluti. Ég kann skil á fósturfræði og þróunarlíffræði. Ég skil það í Kóraninum sem fyrir mig er þýtt. Ef ég þyrfti að setja mig í hans spor, eins og ég tók dæmi um, vitandi það sem ég vissi og ætti að útskýra það, gæti ég ekki gert það eins og þarna er gert. Ég sé engin tormerki á því að viðurkenna að þessi maður, Múhameð, hafi öðlast þessa þekkingu einhvers staðar frá. Ég sé ekkert því til fyrirstöðu að guðleg forsjón hafi haft hönd í bagga með því sem honum var gert kleift að rita niður.” [1]

4) Dr. William W. Hay er vel þekktur haffræðingur. Hann er prófessor í jarðvísindum við Háskólann í Colorado í Boulder í Bandaríkjunum. Hann var áður deildarforseti Rosenstiel School of Marine and Atmospheric Science við Háskólann í Miami í Bandaríkjunum. Í viðræðum við prófessor Hay um það sem Kóraninn segir og nýlega uppgötvaðar vísindalegar staðreyndir um hafið kom þetta fram hjá honum:

---

[1] Múhameð spámaður ﷺ var ólæs og óskrifandi. Hann gat hvorki skrifað né lesið, en hann þuldi Kóraninn yfir félögum sínum og bauð þeim síðan að skrifa hann niður.

„Mér finnst einkar merkilegt að slíkar upplýsingar skuli að finna í fornum texta hinnar helgu bókar, Kóransins, og mér er óskiljanlegt hvaðan þær kunna að koma. En mér finnst afar fróðlegt að þær skuli þarna að finna og að þetta rit upplýsi um merkingu nokkurra kafla."   Og þegar hann var spurður um heimildir Kóransins svaraði hann: „Já, ætli það hljóti ekki að vera almættið."

5) Dr. Gerald C. Goeringer er áfangastjóri og aðstoðarprófessor í fósturvísafræði við frumulíffræðideild læknadeildar Georgetown-háskóla í Washington DC. Á meðan á 8. læknaráðstefnunni stóð í Riyadh í Sádí-Arabíu sagði Goeringer eftir að hafa kynnt rannsóknir sínar:

„Í tiltölulega fáum versum (aayah)  í Kóraninum  finnst allgreinargóð lýsing á þróun fósturs eftir blöndun kynfruma við samfarir. Engin svo greinargóð og fullkomin skýrsla um þróun mannsins, svo sem flokkun, orðanotkun og lýsing, var áður til. Að flestu eða öllu leyti er þessi lýsing mörgum öldum á undan lýsingum á þróunarstigum fósturvísis og fósturs í mönnum í hefðbundnum vísindaritum."

6) Dr. Yoshihide Kozai er prófessor emeritus við Tókíó-háskóla í Japan og var stjórnandi alþjóðlegu stjarnfræðiskoðunarstofnunarinnar í Mitaka í Tókíó. Hann segir:

„Mér finnst afar merkilegt að finna sannreyndar stjarnfræðilegar staðreyndir í Kóraninum og stjörnufræðingar vorra daga hafa reyndar rannsakað mjög lítið af alheiminum. Við höfum einbeitt okkur að því að komast til botns í afar fáum atriðum. Það er vegna þess að við sjáum of lítið brot af himingeimnum í stjörnusjónaukum til að setja í heildarsamhengi. En með því að lesa Kóraninn og svara spurningum sem upp koma tel ég mér vísað veginn fram á við í rannsóknum á himingeimnum."

7) Prófessor Tejatat Tejasen er deildarforseti við líffærafræðideild við Chiang Mai-háskóla í Tælandi. Áður var hann deildarforseti lyfjadeildar við sama háskóla. Á 8. læknaráðstefnunni í Riyadh í Sádí-Arabíu stóð prófessor Tejasen upp og sagði:

„Síðustu þrjú árin hef ég lesið Kóraninn af áhuga. Af þeim lestri og því sem komið hefur fram á þessari ráðstefnu er mér ljóst að allt sem í Kóraninn var skrifað fyrir 1400 árum og verður vísindalega sannað hlýtur að vera satt. Þar eð Múhameð spámaður kunni hvorki að lesa né skrifa hlýtur hann að vera boðberi þessa sannleika sem honum opinberaðist í fræðsluskyni frá þeim sem er talinn skapari. Sá skapari hlýtur að vera Guð. Því tel ég tíma kominn til að segja La ilaha illa Allah, það er enginn guð nema Allah (Guð), Muhammadur rasoolu Allah, Múhameð er sendiboði (spámaður) Allah (Guðs). Í lokin vil ég óska til hamingju með frábært og vel skipulagt ráðstefnuhald. Ég hef ekki aðeins notið þess á vísindalegum og trúarlegum forsendum heldur einnig haft stórkostlegt tækifæri til að hitta marga vel metna vísindamenn og eignast marga nýja vini meðal ráðstefnugesta. Það sem er mér dýrmætast af öllu er La ilaha illa Allah, Muhammadur rasoolu Allah, og að hafa gerst múslími.”

Miðað við öll þessi dæmi um vísindaleg kraftaverk í hinni helgu bók, Kóraninum, og ummæli vísindamannanna hér að ofan, þá getum við spurt eftirfarandi spurninga:

Gæti það verið tilviljun að þær vísindalegu upplýsingar sem nýlega hafa verið uppgötvaðar á mismunandi sviðum vísindanna eru nefndar í Kóraninum sem opinberaðist fyrir 14 öldum?

Er mögulegt að Kóraninn sé saminn af Múhameð ﷺ eða einhverri annarri manneskju?

Eina mögulega svarið er að Kóraninn hlýtur að vera orðrétt frá Guði kominn og opinberaður af honum.

## 2) Sú erfiða þraut að semja nokkuð sem jafnast að fegurð á við kafla í hinni helgu bók, Kóraninum

Guð sagði í Kóraninum:

﴾ Ef þið dragið í efa það sem Vér höfum opinberað þjóni vorum (Múhameð) þá leggið fram súru sem þessa og kallið til vitni, annað en Guð, að þið séuð sannorðir. En skjátlist ykkur – svo sem víst mun verða – skuluð þið óttast eldinn sem af mönnum og steinum brennur og búinn er hinum vantrúuðu. En flyt þú (Múhameð) gleðitíðindi þeim sem trúa og góð verk vinna að þeirra bíði garður þar sem ár streyma undir... ﴿ (Kóran, 2.23-25)

Frá því Kóraninn var fyrst opinberaður mönnum fyrir fjórtán öldum hefur engum tekist að semja nokkuð sem jafnast á við kafla hans að fegurð, málsnilld, stórfengleik, lögvísi, sannleika, spádómsgáfu auk annars sem best má prýða. Og þó að stysti kafli Kóransins (108. kafli) sé einungis tíu orð hefur engum tekist þetta hvorki fyrr né síðar.[1] Margir vantrúaðir arabar óvinveittir Múhameð ﷺ spámanni reyndu að leysa þessa þraut til þess að sýna fram á að Múhameð ﷺ væri ekki sannur spámaður. En þeim mistókst.[2] Þeim mistókst jafnvel þó að Kóraninn hafi verið opinberaður mönnum á tungumáli þeirra. Þó voru arabar á tíma Múhameðs ﷺ orðslyngir og kunnir af ægifagurri ljóðlist sinni sem enn þann dag í dag er í hávegum höfð.

[1] Sjá *Al-Borhan fee Oloom Al-Quran*, Al-Zarkashy, 2. bindi, bls. 224.

[2] Sjá *Al-Borhan fee Oloom Al-Quran*, Al-Zarkashy, 2. bindi, bls. 226.




Stysti kafli Kóransins (108. kafli) er einungis tíu orð. Þó hefur engum hefur tekist að leysa þá þraut að semja nokkuð sem jafnast á við kafla Kóransins.

## 3) Spádómar Biblíunnar um komu Múhameðs ﷺ spámanns Íslams




Spádómar Biblíunnar um Múhameð ﷺ spámann bera þeim sem treysta Biblíunni vitni um sannleika Íslams.

Í 18. kafla Fimmtu Mósebókar greinir Móse frá því sem Guð sagði við hann:

„„Ég vil upp vekja þeim spámann meðal bræðra þeirra, slíkan sem þú ert, og ég mun leggja honum mín orð í munn, og hann skal mæla til þeirra allt það, er ég býð honum. Og hvern þann, er eigi vill hlýða á orð mín, þau er hann mun flytja í mínu nafni, hann mun ég krefja reikningsskapar.“ (Fimmtu Mósesbók 18:18-19).

Af þessum versum má álykta að spámaðurinn verði að uppfylla eftirfarandi þrjú skilyrði:

1) Að hann líkist Móse.

2) Að hann sé af ætt bræðra Ísraelsmanna, þ.e. Ísmaelíta.

3) Að Guð leggi spámanninum sín orð í munn og að hann segi það sem Guð býður honum.

Skoðum þessi þrjú atriði betur.

**1) Spámaður líkur Móse.**

Varla eru neinir tveir spámenn jafnlíkir og Móses og Múhameð ﷺ. Báðum voru gefin allsherjarlög og lífsreglur. Báðir börðust þeir við óvini sína og höfðu sigur svo gekk kraftaverki næst. Þeir voru báðir viðurkenndir spámenn og stjórnvitringar. Báðir þurftu að flýja eftir tilraun til að ráða þá af dögum. Hliðstæður milli Móse og Jesú eru ekki sambærilegar þeim sem hér voru nefndar. Auk þess skeikar þar í fleiri mikilvægum atriðum, svo sem varðandi fæðingu, fjölskyldulíf og dauða Móses og Múhameðs ﷺ, sem eru ólík því sem vitað er um Jesú. Þar að auki litu fylgjendur Jesú á hann sem Guðs son en ekki eingöngu spámann Guðs eins og Móses og Múhameð ﷺ voru og múslímar trúa að Jesú hafi verið. Þessi spádómur á því við Múhameð ﷺ spámann en ekki Jesú þar sem Múhameð ﷺ líkist Móse meira en Jesú gerir.

Í Jóhannesarguðspjalli kemur einnig fram að gyðingar væntu uppfyllingar þriggja aðgreindra spádóma. Sá fyrsti var um komu Krists, annar um komu Elía og sá þriðji um komu Múhameðs ﷺ spámanns. Þetta kemur greinilega fram í spurningum þeim sem lagðar voru fyrir Jóhannes skírara.

,,Þessi er vitnisburður Jóhannesar, þegar Gyðingar sendu til hans presta og levíta frá Jerúsalem að spyrja hann: “Hver ert þú?„

Hann svaraði ótvírætt og játaði: “Ekki er ég Kristur. „
Þeir spurðu hann: “Hvað þá? Ertu Elía? „
Hann svarar: “Ekki er ég hann. „
“Ertu spámaðurinn? „

“Hann kvað nei við.„ (Jóhannesarguðspjall 1.19-21).

Í Biblíuútgáfum með millivísunum er þess getið í neðanmálsgrein þar sem orðið spámaðurinn kemur fyrir í Jóhannesarguðspjall. 1.21 að það vísar til spádómsins í Fimmtu Mósebók 18.15 og 18.18. Af þessu má draga þá ályktun að Jesús Kristur er ekki spámaðurinn sem nefndur er í Fimmtu Mósebók 18.18.

**2) Af ætt bræðra Ísraelsmanna, þ.e. Ísmaelíta.**

Abraham átti tvo syni Ísamel og Ísak (Fyrsta Mósesbók 21). Ísamel varð ættfaðir araba og Ísak varð ættfaðir gyðinga. Spámaðurinn, sem heitið var, átti ekki að koma fram meðal gyðinga heldur bræðra þeirra, þ.e. Ísmaelíta. Múhameð ﷺ af ætt Ísamels er að sönnu spámaðurinn.

Þess má einnig geta að í Jesaja, 42.1-13, er talað um þjón Guðs, hans útvalda, sendiboðann sem boðar réttinn.

,,Hann daprast eigi og gefst eigi upp, uns hann fær komið inn rétti á jörðu, og fjarlægar landsálfur bíða eftir boðskap hans.“ (Jesaja 42.4).

Ellefta vers tengir þann sem vænst er við afkomendur Kedars. En hver var Kedar? Samkvæmt Fyrstu Mósebók 25.13 var Kedar næstelsti sonur Ísamels, forfaðir Múhameðs ﷺ spámanns.

**3) Guð leggur spámanninum sín orð í munn.**

Orð Guðs (hin helga bók Kóraninn) var sannarlega lagt Múhameð ﷺ spámanni í munn. Guð sendi Gabríel engil til Múhameðs ﷺ í þeim tilgangi að kenna honum orð Guðs (hina helgu bók Kóraninn) og biðja hann að hafa þau eftir orðrétt í áheyrn fólksins um leið og hann heyrði þau sjálfur. Þetta eru því ekki orð Múhameðs ﷺ sjálfs. Þau spruttu ekki upp af hugsun hans sjálfs heldur lagði Gabríel engill honum þau í munn. Meðan Múhameð ﷺ lifði hafði hann umsjón með því að félagar hans legðu þau á minnið og rituðu niður.

Í spádómi Fimmtu Mósesbókar kemur einnig fram að spámaðurinn mælir orð Guðs í nafni Guðs. Í hinni helgu bók Kóraninum hefst sérhver kafli nema sá níundi á orðunum: , „Í nafni Guðs, hins náðuga, hins miskunnsama."

Auk spádómsins í Fimmtu Mósebók finnst önnur vísbending hjá Jesaja sem tengir sendiboðann af ætt Kedars og nýjan söng (ritningu á nýju tungumáli) sunginn Drottni (Jes 42.10-11). Á þetta er og minnst með skýrari hætti í spádómi Jesaja: „... með ... annarlegri tungu mun hann láta tala til þessarar þjóðar ..." (Jesaja 28.11). Einnig er vert að minnast á í þessu samhengi að Kóraninn var opinberaður mönnum hluta fyrir hluta á tuttugu og þremur árum. Áhugavert er að bera það saman við 28. kafla Jesaja sem segir það sama: „Alltaf að skipa og skipa, skipa og skipa - skamma og skamma, skamma og skamma - ýmist þetta, ýmist hitt."  (Jesaja 28.10).
Takið eftir að Guð sagði í spádómi sínum í 18. kafla Fimmtu Mósebókar:

, „Og hvern þann, er eigi vill hlýða á orð mín, þau er hann mun flytja í mínu nafni, hann mun ég krefja reikningsskapar. "  (Fimmta Mósesbók 18.19).
Þetta þýðir að hver sem treystir Biblíunni verður að trúa því sem spámaðurinn segir og spámaðurinn er Múhameð ﷺ.

## 4) Vers í Kóraninum sem geta óorðinna atburða sem síðar rættust

Einn þeirra atburða sem sagt er fyrir um í Kóraninum er sigur Rómverja á Persum innan þriggja til níu ára eftir að Rómverjar biðu lægri hlut fyrir Persum. Guð segir í Kóraninum:

﴿ Rómverjar hafa verið sigraðir í grannlandi. En eftir ósigurinn munu þeir sjálfir sigra – innan tíu ára. Guð ræður sigri fyrr og síðar. Þann dag munu trúaðir fagna. ﴾ (Kóran, 30.2-4).

Hvað hefur sagnfræðin að segja um þetta stríð. Í ritinu „History of the Byzantine State" kemur fram að her Aust-rómverska ríkisins beið smánarlegan ósigur við Antíokkíu árið 613 og að í kjölfarið sóttu Persar hratt fram á öllum vígstöðvum.[1] Á þeim tíma var því naumast hægt að láta sér detta í hug að Rómverjar gætu sigrað

[1] *History of the Byzantine State*, Ostrogorsky, bls. 95.

Persa. En í Kóraninum var því spáð að stríðsgæfan snérist Rómverjum í vil innan þriggja til níu ára. Árið 622, níu árum eftir ósigur Rómverja, mættust herirnir tveir á armenskri grund og að lyktum unnu Rómverjar afgerandi sigur á Persum í fyrsta sinn eftir ósigur þeirra árið 613.[1] Spádómur Guðs í Kóraninum rættist.

Mörg önnur vers Kóransins og Múhameð ﷺ spámaður nefna einnig ókomna atburði sem svo urðu.

## 5) Kraftaverk Múhameðs ﷺ spámanns

Múhameð ﷺ spámaður vann mörg kraftaverk með leyfi Guðs. Mörg vitni voru að kraftaverkum hans.
Þegar hinir vantrúuðu í Mekka báðu Múhameð ﷺ spámann að vinna kraftaverk sýndi hann þeim tunglið klofna.[2]
Annað kraftaverk varð er vatn flóði af fingrum Múhameðs ﷺ þegar félaga hans þyrsti en áttu ekkert vatn nema ögn í keri. Þeir komu til hans og sögðu honum að þeir ættu hvorki vatn til að lauga sig með né til drykkjar fyrir utan það sem í kerinu var. Múhameð ﷺ dýfði þá hendi sinni í kerið en vatn tók að flæða fram milli fingra hans. Þá drukku þeir og lauguðu sig, allir fimmtánhundruð talsins.[3]

Mörg önnur kraftaverk vann hann og varð vitni að.

## 6) Fábrotnir lifnaðarhættir Múhameðs ﷺ

Með því að bera saman lífshlaup Múhameðs ﷺ fyrir og eftir að hann fékk köllun sem spámaður er auðvelt að komast að þeirri niðurstöðu að ekki sé rökrétt að telja Múhameð ﷺ falsspámann sem krafðist viðurkenningar í sókn eftir efnislegum

---

[1] *History of the Byzantine State*, Ostrogorsky, bls. 100-101, og *History of Persia*, Sykes, 1. bindi, bls. 483-484. Sjá einnig *The New Encyclopaedia Britannica*, Micropaedia 4. bindi, bls. 1036.
[2] Frá þessu er greint í *Saheeh Al-Bukhari*, #3637 og *Saheeh Muslim*, #2802.
[3] Frá þessu er greint í *Saheeh Al-Bukhari*, #3576 og *Saheeh Muslim*, #1856.

gæðum, svo og virðingu, frægð og völdum.

Áður en Múhameð ﷺ fékk köllun var hann laus við hvers konar fjárhagsáhyggjur. Múhameð var vel liðinn kaupmaður og naut slíkrar velgengni að honum græddist yfrið nóg fé. En eftir að hann fékk köllun sem spámaður og ekki síst vegna hennar hafði hann mun minna milli handanna. Þetta skýrist betur ef skoðuð eru eftirfarandi ummæli um líf hans:

Aa'isha, eiginkona Múhameðs ﷺ sagði: „Ó frændi, við höfum séð þrjú ný tungl á tveimur mánuðum án þess að kveikja upp (til að elda) í húsi spámannsins ﷺ." Frændi hennar spurði: , „Ó frænka, hvernig sáuð þið ykkur farborða." Hún sagði: „Með því tvenna dökka, döðlum og vatni, en nágrannar spámannsins ﷺ frá Ansar áttu mjólkandi kameldýr og sendu honum mjólk."[1]

Sahl Ibn Sa'ad, einn félaga Múhameðs ﷺ, sagði: „Spámaður Guðs ﷺ sá ekki brauð bakað úr fínu hveiti frá því hann fékk köllun (sem spámaður) allt þar til hann lést."[2]

Aa'isha, eiginkona Múhameðs ﷺ sagði: „Dýna spámannsins, ﷺ sú sem hann svaf á, var úr leðri fyllt með trefjum döðlupálmans."[3]

Amr Ibn Al-Hareth, einn félaga Múhameðs ﷺ, sagði að þegar spámaðurinn ﷺ dó hafi hann ekkert látið eftir sig, hvorki fé né annað, fyrir utan grátt múldýr sem hann notaði til reiðar, vopn sín og landskika sem hann gaf til ölmusu.[4]

Múhameð ﷺ barðist í bökkum uns hann lést þó svo að fjárhirslur ríkis múslíma stæðu honum opnar. Stærstur hluti Arabíuskaga var á valdi múslíma er hann lést, en múslímar voru sigursælir eftir átján ára trúboð hans.

Er mögulegt að Múhameð ﷺ hafi sóst eftir því að verða spámaður til þess að komast til metorða, öðlast virðingu og ná völdum? Þrá eftir metorðum og völdum leiðir hugann að góðum mat, glæsiklæðum, rismiklum höllum, skrautbúnum verði og óumdeildu valdi. Á nokkuð af þessu við Múhameð? ﷺ Til að fá þessari spurningu svarað er rétt að fræðast meira um lífshlaup hans.

[1] Frá þessu er greint í *Saheeh Muslim*, #2972 og *Saheeh Al-Bukhari*, #2567.
[2] Frá þessu er greint í *Saheeh Al-Bukhari*, #5413 og *Al-Tirmizi*, #2364.
[3] Frá þessu er greint í *Saheeh Muslim*, #2082 og *Saheeh Al-Bukhari*, #6456.
[4] Frá þessu er greint í *Saheeh Al-Bukhari*, #2739 og *Mosnad Ahmad*, #17990.

Þrátt fyrir að Múhameð ﷺ gegndi margvíslegum skyldum sem spámaður, fræðari, stjórnvitringur og dómari var hann vanur að mjólka[1] geit sína sjálfur, gera við föt sín og skó,[2] taka þátt í heimilisverkunum[3] og vitja fátæks fólks þegar það lagðist veikt.[4] Hann aðstoðaði jafnvel félaga sína við að grafa gryfjur í sandinn.[5] Ævi hans var öðrum til fyrirmyndar á undraverðan hátt í einfaldleika sínum og auðmýkt.

Fylgjendur Múhammeðs ﷺ elskuðu hann og virtu og treystu honum fullkomlega. Samt sem áður lagði hann stöðugt áherslu á þeir skyldu tilbiðja Guð en ekki hann sjálfan. Anas, einn félaga Múhameðs ﷺ sagði að þeir elskuðu engan sem Múhameð ﷺ spámann. Þrátt fyrir það risu þeir ekki á fætur[6] þegar hann kom til þeirra eins og vani var að fólk gerði í návist mikilmennis því það líkaði honum stórilla.

Löngu áður en ljóst var að Íslam ætti nokkra framtíð fyrir sér, reyndar í upphafi langvarandi hörmungartíma fyrir Múhameð ﷺ og fylgismenn hans, þjáningar og ofsóknir, barst honum áhugavert tilboð. Sendiboði hinna heiðnu höfðingja, Otba að nafni, flutti honum erindi þeirra: ,,... Ef þú krefst fjár munum við safna saman svo miklum sjóði og færa þér að þú verður auðugastur okkar allra. Ef þú villt verða forystumaður okkar munum við taka við þér sem slíkum og enga ákvörðun taka utan samþykkis þíns. Ef þú villt ríkja yfir okkur munum við krýna þig konung vorn .Múhameð ﷺ þurfti aðeins að gefa eftir í einu atriði í staðinn, að láta af því að snúa fólki til Íslam og tilbiðja einn Guð en ekki marga. Freistar þetta ekki þess sem sækist eftir veraldlegum gæðum? Hikaði Múhameð ﷺ er hann fékk þetta erindi? Hafnaði hann tilboðinu í því skyni að standa betur að vígi í áframhaldandi viðræðum í von um að boðið yrði betur? Þetta var svar hans: ,,Í nafni Guðs, hins

[1] Frá þessu er greint í *Mosnad Ahmad*, #25662.
[2] Frá þessu er greint í *Saheeh Al-Bukhari*, #676 og *Mosnad Ahmad*, #25517.
[3] Frá þessu er greint í *Saheeh Al-Bukhari*, #676, og *Mosnad Ahmad*, #23706.
[4] Frá þessu er greint í *Mowatta' Malek*, #531.
[5] Frá þessu er greint í *Saheeh Al-Bukhari*, #3034, *Saheeh Muslim*, #1803 og *Mosnad Ahmad*, #18017.
[6] Frá þessu er greint í *Mosnad Ahmad*, #12117 og *Al-Tirmizi*, #2754.

náðuga, hins miskunnsama”. Og hann flutti Otba vers úr Kóraninum 41.1-38.”[1] Hér á eftir fara nokkur þeirra:

{Þetta er opinberun frá hinum náðuga, hinum miskunnsama. Bók teikna sem vel eru skýrð, arabískur Kóran til manna sem skilja. Gleðiboðskapur [og loforð um Paradís fyrir þá sem trúa á einsleika Guðs (þ.e.a.s Íslamska eingyðistrú) og er guðhrædd(ur) (og forðast syndir og vondar gjörðir) og elskar Guð mikið (og sýnir það með góðum gjörðum sem Hann hefur fyrirskipað ykkur að gera)] og viðvörun (um eilífa refsingu í heljar eldinum fyrir þann sem vantrúir einsleika Guðs). En flestir snúa við baki og heyra ekki.}(Kóran, 41.2-4).

Við annað tækifæri, er frændi hans mæltist til þess að hann hætti að boða Íslam, var svar Múhameðs ﷺ jafnótvírætt og hreinskilið: “Ég heiti því í nafni Guðs --- Ó frændi! --- að þó mér verði fengin sólin í hina hægri hönd en máninn í þá vinstri í skiptum fyrir uppgjöf í þessu máli (við að boða Íslam) mun ég eigi láta staðar numið fyrr en annað hvort Guð lætur það hrósa sigri eða ég ferst við vörn þess.„[2]

Það var ekki aðeins að Múhameð ﷺ og hinir fáu fylgismenn hans máttu þola ofsóknir í þrettán ár heldur reyndu hinir vantrúuðu meira að segja að ráða Múhameð ﷺ af dögum nokkrum sinnum. Eitt sinn veittu þeir honum tilræði og vildu færa hnullung, sem varla var á færi nokkurs að lyfta, í höfuð honum.[3] Annað sinn reyndu þeir að myrða hann með því að eitra mat hans.[4] Hvað réttlætir slíka þjáningu og fórn jafnvel þó hann hrósaði sigri yfir fjandmönnum sínum? Hvað skýrir auðmýktina og göfuglyndið sem hann sýndi á sínum stærstu stundum er hann hélt því ákveðið fram að árangur næðist aðeins með Guðs hjálp en ekki snilligáfu hans sjálfs? Finnst þetta í valdasjúkum eða sjálfselskum manni?

---

[1] *Al-Serah Al-Nabaweyyah*, Ibn Hesham, 1. bindi, bls. 293-294.
[2] *Al-Serah Al-Nabaweyyah*, Ibn Hesham, 1. bindi, bls. 265-266.
[3] *Al-Serah Al-Nabaweyyah*, Ibn Hesham, 1. bindi, bls. 298-299.
[4] Frá þessu er greint í *Al-Daremey*, #68 og *Abu-Dawood*, #4510.

## 7) Vöxtur og útbreiðsla Íslams

Í kaflalok er við hæfi að nefna mikilvæga vísbendingu um að Íslam sé sönn trú. Það er alkunna að Íslam breiðist örast út allra trúarbragða bæði í Bandaríkjunum og annars staðar í heiminum. Hér á eftir fylgja nokkur ummæli manna um þetta undraverða fyrirbæri:

,,Íslam breiðist örast út allra trúarbragða í Bandaríkjunum og er leiðarljós og haldreipi fjöldamargra þessarar þjóðar ...“ (Hillary Rodham Clinton, *Los Angeles Times*).[1]

,,Múslimum fjölgar mest allra trúflokka í heiminum ...“ (The Population Reference Bureau, *USA Today*).[2]

,,... Íslam breiðist örast út allra trúarbragða hér í landi.“ (Geraldine Baum; *Newsday* Religion Writer, *Newsday*).[3]

,,Íslam, þau trúarbrögð sem breiðast örast út í Bandaríkjum Norður-Ameríku ...“ (Ari L. Goldman, *New York Times*).[4]

Þetta undraverða fyrirbæri bendir til þess að Íslam sé sannarlega rétt Guðs trú. Það er órökrétt að láta sér detta í hug að svo margir Bandaríkjamenn og fólk hvaðanæva að úr heiminum taki við Íslam án þess að íhuga það og gaumgæfa vandlega hvort Íslam sé sönn trú. Menn af öllum þjóðum, stéttum, kynþáttum og með mismunandi lífshætti hafa snúist. Þeirra á meðal eru vísindamenn, háskólakennarar, heimspekingar, blaðamenn, stjórnmálamenn, leikarar og íþróttamenn.

Í þessum kafla koma aðeins fram fáein rök fyrir trú á að Kóraninn sé rétt orð Guðs, að Múhameð ﷺ sé sannarlega spámaður af Guði sendur og að Íslam sé vissulega trúarbrögð frá Guði komin.

---

[1] Larry B. Stammer, Times Religion Writer, “First Lady Breaks Ground With Muslims,” *Los Angeles Times*, Home Edition, Metro Section, Part B, May 31, 1996, bls. 3.

[2] Timothy Kenny, “Elsewhere in the World,” *USA Today*, Final Edition, News Section, February 17, 1989, bls. 4A.

[3] Geraldine Baum, “For Love of Allah,” *Newsday*, Nassau and Suffolk Edition, Part II, March 7, 1989, bls. 4.

[4] Ari L. Goldman, “Mainstream Islam Rapidly Embraced By Black Americans,” *New York Times*, Late City Final Edition, February 21, 1989, bls. 1.

# 2. Kafli

## Hvernig má Íslam verða að gagni?

Íslam er til margvíslegra hagsbóta fyrir hvern og einn, svo og samfélagið heild. Í þessum kafla er drepið á það hvernig Íslam getur komið mönnum að gagni.

### 1. Hliðið að eilífri Paradís

Guð sagði í Kóraninum:

﴿ En flyt þú (Múhameð) gleðitíðindi þeim sem trúa og góð verk vinna að þeirra bíði garður þar sem ár streyma undir... ﴾
(Kóran, 2.25)

Guð sagði einnig:

{Keppið því hver við annan um fyrirgefningu Drottins yðar og um paradísargarðinn svo mikinn sem himna og jörð, undirbúinn þeim sem trúa á Guð og sendiboða hans.}
(Kóran, 57.21)

Múhameð ﷺ spámaður sagði að í Paradís byggju hinir lægst settu við tífalt betri kost en hér á jörðu[1] og að sérhver karl eða kona fengi hvaðeina er hugurinn girntist og tífalt það.[2] Múhameð ﷺ spámaður sagði einnig: ,,Fótspor í Paradís er meira

[1] Frá þessu er greint í *Saheeh Muslim*, #186 og *Saheeh Al-Bukhari*, #6571.
[2] Frá þessu er greint í *Saheeh Muslim*, #188 og *Mosnad Ahmad*, #10832.

virði en heimurinn allur og það sem honum tilheyrir.“[1] Hann sagði og: ,,Í Paradís finnst það sem ekkert auga hefur séð, engin eyru hafa heyrt og enginn hefur látið sér til hugar koma.“[2] Einnig sagði hann: ,,Sá aumasti hér á jörðu, þeirra sem inngengt eiga í Paradís, verður færður þangað eina stund.“ Þegar hann snýr aftur er hann spurður: ,,Adams sonur, máttir þú nokkru sinni þola bágindi? Reyndir þú nokkru sinni mótlæti?“ Þá segir hann: ,,Nei, í Guðs nafni, ó Drottinn! Ég mátti aldrei þola bágindi og ekki heldur reyndi ég mótlæti nokkurt.“[3]

Sá sem inn i Paradís gengur mun mikillar hamingju njóta, laus við sjúkdóma, kvalir, sorg og dauða. Guð mun gera honum gott og þar mun hann dvelja alla eilífð. Guð sagði í Kóraninum:
{Þá sem trúa og gjöra góð verk munum Vér leiða í garða þar sem ár streyma undir og þeir fá að dveljast þar að eilífu...}
(Kóran, 4.57)

## 2. Frelsun úr vítiseldinum

Guð sagði í Kóraninum:

Hinum vantrúuðu sem deyja í vantrú sinni dugir ekki jarðarfylli gulls sem lausnargjald. Slíkra bíður sár refsing og enginn mun hjálpa þeim. (Kóran, 3.91)

Eina ráðið til þess að fá inngöngu í Paradís og komast hjá logum vítis er að breyta rétt í lífinu vegna þess að sá sem deyr vantrúaður á engan kost á því að snúa aftur til þessa heims og trúarinnar. Guð sagði í Kóraninum hvað biði hinna vantrúuðu á dómsdegi.

[1] Frá þessu er greint í *Saheeh Al-Bukhari*, #6568 og *Mosnad Ahmad*, #13368.
[2] Frá þessu er greint í *Saheeh Muslim*, #2825 og *Mosnad Ahmad*, #8609.
[3] Frá þessu er greint í *Saheeh Muslim*, #2807 og *Mosnad Ahmad*, #12699.

Ef þú gætir séð þá andspænis eldinum þegar þeir segja: Ó, að við gætum snúið aftur, þá skyldum við ekki hafna teiknum Drottins vors, heldur gerst sannir trúendur. (Kóran, 6.27) En enginn á þess kost öðru sinni.

Múhameð spámaður sagði: ,,Sá lánsamasti hér á jörðu, þeirra sem dæmdir eru á bálið (til helvítis) á dómsdegi, verður færður í eldinn eina stund. Þegar hann snýr aftur er hann spurður: ,,Adams sonur, sást þú nokkru sinni gögn og gæði? Naust þú nokkru sinni blessunar?" Þá segir hann: ,,Nei, í Guðs nafni, ó Drottinn!"[1]

## 3. Sönn hamingja og innri friður



Hægt er að öðlast sanna hamingju og frið með því að lúta valdi skapara himins og jarðar. Guð sagði í Kóraninum:

Sannarlega, með því að minnast Guðs finna hjörtun frið. (Kóran, 13.28)

Hins vegar bíða erfiðleikar hvers þess sem snýr baki við Kóraninum í þessu lífi. Guð sagði:

En hver sá sem snýr sér frá kenningum Kóransins, hann[2] mun eiga erfitt líf og verður hann endurreistur sem blindur maður á dómsdeginum. (Kóran, 20.124)[3]

Þetta skýrir ef til vill hvers vegna sumir stytti sér aldur sitt þó þeir njóti alls kyns munaðar sem auður þeirra færir þeim. Cat Stevens sem nú ber nafnið Yusuf Islam var heimsfrægur dægurlagasöngvari. Fyrir kom að hann fékk greitt meira en 10 milljónir króna fyrir eina kvöldskemmtun. Eftir að hann snerist til Íslams varð hann fyrst hamingjusamur fyrir alvöru og öðlaðist innri frið sem hann hafði ekki fundið áður þrátt fyrir efnislega velgengni sína.[4]

---

[1] Frá þessu er greint í *Saheeh Muslim*, #2807 og *Mosnad Ahmad*, #12699.
[2] Þeas sá sem trúir ekki á kenningar Kóranins og er hlýðir þeim.
[3] Þ.e. sá sem hvorki treystir Kóraninum né fer eftir því sem þar er boðið.
[4] Sá er vill spyrja Cat Stevens (Yusuf Islam), hvernig honum hefur liðið eftir að hann snérist til Íslams getur sent honum bréf á þetta heimilisfang: 2 Digswell Street, London N7 8JX, United Kingdom.

## 4. Fyrirgefning fornra synda

Þeim er tekur við Íslam eru fyrirgefnar allar syndir og ódæði er hann hefur þegar drýgt. Maður nokkur, Amr að nafni, kom til Múhameðs ﷺ spámanns og sagði: ,,Réttu mér hægri hönd þína svo ég geti heitið þér hollustu minni.“ En er spámaðurinn ﷺ rétti fram hægri höndina lét Amr höndina síga. Spámaðurinn ﷺ sagði: ,,Hvað er að, ó Amr?“ Hann svaraði: ,,Ég set eitt skilyrði.“ Spámaðurinn ﷺ spurði: ,,Hvaða skilyrði setur þú?“ Amr sagði: ,,Að Guð fyrirgefi mér syndir mínar.“ Spámaðurinn ﷺ sagði þá: ,,Vissir þú ekki að með því að snúast til Íslams eru þér allar fornar syndir fyrirgefnar.“[1]

Þeim er snýst til Íslams mun þaðan í frá umbunað í samræmi við breytni sína góða eða slæma, eða eins og Múhameð ﷺ spámaður sagði: ,,Enginn er miskunnsamari en Guð ykkar sem þið lofið og vegsamið. Hjá þeim sem hefur gott í hyggju er góðverkið skráð jafnvel þó hann gjöri það eigi. En ef hann gjörir gott þá er hjá honum skráð tífalt til sjöhundraðfalt eða miklu mun meira (í umbun fyrir kærleiksverkið). Og hjá þeim sem hefur illt í huga en vinnur eigi ódæðið er góðverk skráð. En ef hann ódæðisverk fremur er það hjá honum skráð nema Guð mái það út.“[2]

---

[1] Frá þessu er greint í *Saheeh Muslim*, #121 og *Mosnad Ahmad*, #17357.
[2] Frá þessu er greint í *Mosnad Ahmad*, #2515 og *Saheeh Muslim*, #131.

# 3. kafli

## Almennar upplýsingar um Íslam

### Hvað er Íslam?

Að játa íslamstrú er að samþykkja og hlýða þeim kenningum Guðs sem hann opinberaði sínum síðasta spámanni, Múhameð ﷺ.

### Grundvallartrúarkenningar Íslams

#### 1) Trúin á Guð

Múslímar trúa á einn Guð, sem á sér enga aðra hliðstæðu, í syni eða staðgengli, og engan má tilbiðja nema hann. Hann er hinn eini og sanni Guð og aðrir guðir eru hjáguðir. Guð ber stórfengleg nöfn og er algerlega fullkominn. Enginn deilir helgi Guðs, né eiginleikum Guðs. Í Kóraninum lýsir Guð sér svo:

﴾ Seg þú: Hann er Guð hinn eini, sá sem allar skapaðar verur eru háðar. Hvorki getur hann börn né var hann getinn. Enginn er líki hans. ﴿ (Kóran, 112:1-4)



**112. kafli í Kóraninum, ritaður með arabísku skrautletri.**

Engan má ákalla, grátbæna, tilbiðja eða dýrka á einn eða annan hátt nema Guð einn.
Guð einn er almáttugur, skapari, drottinn og forsjá alls í veröldinni. Hann vakir yfir öllu. Hann er óháður sköpunarverki sínu, en allt sköpunarverk Guðs þarfnast hans um allt. Hann er allt heyrandi, allt sjáandi og allt vitandi. Þekking hans nær fullkomlega yfir alla hluti, þá sem sjá má berum augum og hina sem ekki sjást, opinber mál og einkamál. Hann veit hvað gerst hefur og hvað gerast mun og hvernig það mun gerast. Ekkert gerist nema með vilja Guðs. Það sem Guð vill að gerist mun gerast og það sem Guð vill ekki að gerist mun aldrei gerast. Vilji hans er æðri öllu sköpunarverkinu. Hann ber ægivald yfir öllum hlutum og getur allt. Guð er almáttugur, miskunnarsamur og góðviljaður. Haft er eftir Múhameð spámanni ﷺ að Guð sé miskunnarsamari gagnvart sköpunarverki sínu en móðir barni sínu.[1] Guð er hvorki óréttlátur né harðstjóri. Hann er alvitur í öllum gerðum sínum og úrskurðum. Ef einhver þarfnast einhvers frá Guði getur sá hinn sami beðið Guð um það án þess að fá einhvern annan til að bera orð á milli.

Guð er ekki Jesús né er Jesús Guð.[2] Jesús hafnaði þessu jafnvel sjálfur. Guð segir í Kóraninum:

﴿ Vissulega eru þeir vantrúaðir sem segja: Jesús sonur Maríu er Guð. Messías sagði sjálfur: „Börn Ísraels, tilbiðjið Guð, Drottinn minn og Drottinn ykkar” Sá sem tilbiður aðra guði fær ekki inngöngu í Paradís og eldurinn verður heimkynni hans í næsta lífi. Enginn kemur þeim misgjörðarmönnum til hjálpar. ﴾ (Kóran, 5:72)

Guð er ekki heilög þrenning. Guð sagði í Kóraninum:

---

[1] Ritað í Saheeh Muslim, #2754 og Saheeh Al-Bukhari, #5999.
[2] Sagt var frá því í Associated Press í London 25. júní 1984 að samkvæmt útkomu í könnun tryði meiri hluti biskupa ensku biskupakirkjunnar að “kristnum mönnum bæri ekki skylda til að trúa að Jesús Kristur væri Guð”. Samkvæmt niðurstöðum könnunarinnar var 31 af 39 biskupum Englands þessu sammála. Einnig kom fram að 19 af 31 biskupi sögðu að það væri nóg að segja að Jesús væri sendiboði og þjónn Guðs. Könnuninn var gerð af trúarbragðaþættinum Credo sem er á dagskrá London Weekend Television.

Vissulega eru þeir vantrúarmenn sem segja: Guð er partur af þrenningu. En það er enginn guð nema Guð. Og ef þessir vantrúarmenn láta ekki af ummælum sínum verður þeim harðlega refsað. Ættu þeir ekki að snúa í iðrun til Guðs og biðjast fyrirgefningar? Guð er sá sem fyrirgefur og miskunnar. (Kóran, 5:73-75)

Íslam hafnar því að Guð hafi hvílst á sjöunda degi sköpunarinnar, að hann hafi deilt við einn af englum sínum og að Guð hafi af öfundsýki bruggað launráð gegn mönnunum, eða að Guð hafi birst holdi klæddur sem maður. Íslam hafnar því einnig að Guð hafi nokkra mannlega eiginleika. Slíkt er talið vera guðlast. Guð er yfir allt upphafinn. Á honum finnast engir annmarkar. Hann þreytist aldrei. Hann syfjar aldrei og þarf ekki að sofa.

Arabíska orðið *Allah* þýðir Guð (hinn eini og sanni sem skapaði allt). Orðið *Allah* er það nafn á Guði sem arabískumælandi menn nota, bæði múslímar og kristnir. Þetta orð getur ekki táknað neitt annað en hinn eina sanna Guð. Arabíska orðið *Allah* kemur um 2700 sinnum fyrir í Kóraninum. Á arameíska, tungumáli sem er náskylt arabísku og er tungan sem Jesús talaði allajafna, kallast Guð einnig Allah.[1]

## 2) Trúin á engla

Múslímar trúa á tilvist engla og að þeir séu dýrlegar verur. Englarnir dýrka Guð einan, hlýða honum og fara aðeins eftir skipunum hans. Á meðal engla er Gabríel, sem færði Múhameð Kóraninn.

## 3) Trúin á opinberunarbækur Guðs

Múslímar trúa að Guð hafi opinberað spámönnunum bækur sínar mönnunum til sönnunar og sem leiðarljós handa þeim. Á meðal þessara bóka er Kóraninn, sem Guð opinberaði Múhameð spámanni. Guð hefur ábyrgst að vernda Kóraninn fyrir afbökun og hártogunum. Guð hefur sagt:

[1] NIV Compact Dictionary of the Bible, Douglas, bls. 42

﴿ Sannarlega sendum Vér boðskapinn (Kóran) og sannarlega munum Vér varðveita hann (óbreyttan og orðréttan) ﴾ (Kóran, 15:9)

## 4) Trúin á spámenn og sendiboða Guðs

Múslímar trúa á spámenn og sendiboða Guðs, en sá fyrsti var Adam og þeirra á meðal eru Nói, Abraham, Ísamel, Ísak, Jakob, Móses og Jesús (friður sé með þeim). En lokaskilaboð Guðs til mannanna, sem staðfesta hinn eilífa boðskap, voru opinberuð Múhameð spámanni ﷺ. Múslímar trúa því að Múhameð ﷺ sé seinasti spámaðurinn sem var sendur af Guði, eins og Guð segir:

﴿ Múhameð er ekki faðir neins ykkar manna en hann er sendiboði Guðs og seinasti spámaður. ﴾ (Kóran, 33:40)

Múslímar trúa því að allir spámennirnir og sendiboðarnir hafi verið af holdi og blóði og hafi enga af guðdómlegum eiginleikum Guðs.

## 5) Trúin á dómsdag:

Múslímar trúa á dómsdag (upprisuna) þegar allir menn munu upp rísa og ganga fyrir Guðs dóm vegna gjörða sinna.

## 6) Trúin á „Al-Quadar"

Múslímar trúa á „Al-Qadar" þeir eru sem sagt guðlegrar forlagatrúar, en að trúin á Guð skapi mönnum örlög þýðir ekki að mennirnir hafi ekki frjálsan vilja. Múslímar trúa þvert á móti að Guð hafi skapað mönnunum frjálsan vilja. Þetta þýðir að mennirnir geti valið á milli réttra og rangra gjörða og séu ábyrgir gjörða sinna.

Forlagatrúin inniheldur fjóra meginþætti: 1) Guð veit allt. Hann veit hvað hefur gerst og hvað mun gerast. 2) Guð hefur skráð allt sem hefur gerst og mun gerast. 3) Hvað sem Guð vill að gerist mun gerast og hvað sem Guð vill ekki að gerist mun ekki gerast. 4) Guð er skapari alls.

## Eru til aðrar helgar heimildir en Kóraninn?

Já. *Sunnah* (það sem Múhameð spámaður ﷺ sagði, gerði eða hafði velþóknun á) er önnur helsta heimild Íslams. *Sunnah* samanstendur af *hadith*, sem eru traustar ritaðar sagnir af því sem fylgismenn Múhameðs spámanns ﷺ heyrðu hann segja, sáu hann gera og hafa velþóknun á. Trúin á „*sunnah*" er einn grundvallarþáttur í íslamstrú.

### Dæmi um ummæli Múhameðs ﷺ spámanns

- {Hinir trúuðu eru sem einn líkami í ást sinni, miskunn og góðsemi í garð hvers annars. Ef einhver hluti líkamans er veikur, þá finnur hann allur til svefnleysis og hita. }[1]

- {Þeir hinna trúuðu sem heitast trúa eru og gæddir mestu siðgæði. Og bestir meðal þeirra eru þeir sem bestir eru konum sínum.}[2]

- {Enginn trúir (fullkomlega) fyrr en hann ann meðbróður sínum þess sem hann sjálfur girnist.}[3]

- {Sá er allt umlykur miskunnar þeim miskunnsömu. Sýnið jarðnesku sköpunarverki miskunn og Guð mun miskunna yður.}[4]

- {Mannkærleikur er að brosa til meðbróður síns ...}[5]

- {Að mæla gott er kærleikur.}[6]

[1] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2586, og Saheeh Al-Bukhari, #6011.
[2] Frá þessu er greint í Mosnad Ahmad, #7354, og Al-Tirmizi, #1162.
[3] Frá þessu er greint í Saheeh Al-Bukhari, #13, og Saheeh Muslim, #45.
[4] Frá þessu er greint í Al-Tirmizi, #1924, og Abu-Dawood, #4941.
[5] Frá þessu er greint í Al-Tirmizi, #1956.
[6] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #1009, og Saheeh Al-Bukhari, #2989.

- {Sá sem trúir á Guð og efsta dag (dómsdag) ætti gera náunga sínum gott.}[1]

- {Guð dæmir ekki eftir útliti eða eftir auðæfum, Guð skyggnist inn í hjörtu yðar og metur gjörðir yðar.}[2]

- {Borgið verkamanninum launin áður en sviti hans þornar.}[3]

- {Mann þyrsti á göngu. Þegar hann kom að brunni einum fór hann niður í brunninn, drakk nægju sína og klifraði aftur upp. Þá sá maðurinn hund með lafandi tungu og reyndi sá að svala þorsta sínum með því að sleikja moldaraurinn. Maðurinn sagði: „Þessi hundur líður fyrir þorsta eins og ég áður." Fór hann ofan í bruninn aftur, fyllti skó sinn vatni og gaf hundinum að drekka. Guð þakkaði honum og fyrirgaf honum syndir hans.} Spámaðurinn ﷺ var spurður: „ Fáum við það launað séum við góð við dýrin?" Hann sagði: {Launað verður allt hið góða sem vikið er að öllum lifandi dýrum og mönnum}.[4]

## Hvað segir Íslam um dómsdag?

Múslímar trúa því eins og kristnir menn að jarðlífið sé aðeins prófraun og undirbúningur fyrir næsta líf. Jarðlífið er prófraun fyrir alla til undirbúnings fyrir líf eftir dauðann. Sá dagur mun koma að veröldin mun farast og hinir dauðu munu upp rísa og hlíta dómi Guðs. Sá dagur verður byrjunin á eilífu lífi. Þetta er dómsdagurinn. Á þeim degi mun öllum verða umbunað af Guði samkvæmt athöfnum og trúfesti. Þeim sem deyja trúandi því að það sé „enginn guð nema Guð og Múhameð ﷺ er sendiboði (spámaður) Guðs" og eru múslímar verður umbunað á þeim degi og þeir munu fá aðgang að paradís að eilífu, eins og Guð hefur sagt:

[1] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #48, og Saheeh Al-Bukhari, #6019.
[2] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2564.
[3] Frá þessu er greint í Ibn Majah, #2443.
[4] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2244, og Saheeh Al-Bukhari, #2466.

﴾ En þeir sem trúa og vinna góð verk verða íbúar paradísar og fá að dveljast þar að eilífu. ﴿ (Kóran, 2:82)

En þeir sem ekki trúa því þegar þeir deyja að það sé „enginn guð nema Guð og Múhameð ﷺ er sendiboði (spámaður) Guðs”  og eru ekki múslímar þegar þeir deyja fá ekki að koma inn í paradís og verða sendir í vítiseldinn, eins og Guð hefur sagt:

﴾ Þeim sem leitar annarrar trúar en Íslam (undirgefni við vilja Skaparans) verður þeirri hjátrú hafnað og munu þeir bíða ósigur í næsta lífi. ﴿ (Kóran, 3:85)

Einnig sagði hann:

﴾ Hinum vantrúuðu sem deyja í vantrú sinni dugir ekki jarðarfylli gulls sem lausnargjald. Slíkra bíður sár refsing og enginn mun hjálpa þeim. ﴿ (Kóran, 3:91)

Einhver gæti spurt: „Ég held að vísu að Íslam sé góð trú, en ef ég mundi taka íslamstrú, þá mundi fjölskylda mín, vinir og aðrir ofsækja mig og hæða mig. Fæ ég ekki, ef ég tek ekki íslamstrú, að koma inn í paradís og forðast ég þá ekki vítiseldinn? “

Svarið hefur Guð gefið í eftirfarandi versi: „Þeim sem leitar annarrar trúar en Íslam (undirgefni við vilja Skaparans) verður hafnað og munu þeir bíða ósigur í næsta lífi}.” (Kóran, 3:85)

Eftir að Guð sendi Múhameð spámann ﷺ til að boða mönnum Íslam viðurkenndi Guð ekki önnur trúarbrögð en Íslam. Guð er skapari okkar og sér okkur farborða. Hann skapaði allt sem er á jörðinni handa okkur. Öll blessun og lífsgæði koma frá Guði. Ef einhver hafnar, þrátt fyrir þetta, trúnni á Guð, sendiboða hans Múhameð spámann ﷺ eða Guðs trú, Íslam, þá mun honum refsað verða í

framhaldslífinu. Aðaltilgangurinn með sköpun okkar er sá að við dýrkum Guð einn og hlýðum honum, eins og Guð hefur látið um mælt í hinni helgu bók, Kóraninum (51:56).

Jarðlífið er mjög stutt. Hinir vantrúuðu munu á dómsdegi finna að jarðlífið var sem einn dagur eða partur úr degi, eins og Guð hefur sagt:

﴾ Og hann (Guð) mun spyrja: Hve mörg ár hafið þér lifað á jörðu? Þeir munu svara: „Einn dag eða stund úr degi." ﴿ (Kóran, 23:112-113)

Og hann hefur sagt:

﴾ Hélst þú að Vér hefðum skapað þig án nokkurs tilgangs og að þú myndir ekki snúa aftur til Vor á dómsdegi? Nú sérðu að Guð er hinn upphafni, hinn sanni konungur. Enginn er Guð nema hann... ﴿ (Kóran, 23:115-116)

Framhaldslífið er afar raunverulegt. Það er ekki aðeins andinn sem lifir, heldur holdið líka. Við munum lifa í sál og líkama.

Múhameð spámaður ﷺ bar saman jarðneskt líf og framhaldslíf og sagði þá: {Gildi þessa heims í samanburði við lífið hinum megin má líkja við það sem loðir við fingur þinn þegar þú hefur dýft honum í vatn.}[1] Merkingin er sú að hið jarðneska líf er í samanburði við framhaldslífið sem nokkrir dropar af vatni í hafið.

## Hvernig verður maður múslími?

Einfaldlega með því að segja af sannfæringu: „La ilaha illa Allah, Muhammadur rasoolu Allah" . Þá hefur maður gerst múslími. Þetta merkir: „Það er enginn guð (goðmagn) nema Guð (Allah) og Múhameð er sendiboði (spámaður) Guðs."Fyrsti hlutinn, „að það er enginn guð nema Guð", merkir að enginn á rétt á tilbeiðslu nema Guð einn og að Guð er hvorki öðrum studdur né á son. Sannur múslími ætti einnig að:

---

[1] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2858, og Mosnad Ahmad, #17560.

* Trúa að hin helga bók, Kóraninn, sé orðrétt eftir Guði höfð og hafi verið opinberuð af Guði.

* Trúa á dómsdaginn (upprisuna) og að sá dagur muni koma eins og Guð hefur lofað í Kóraninum.

* Að viðurkenna íslamstrú.

* Að tilbiðja ekkert nema Guð og engan annan en Guð.

Múhameð spámaður ﷺ sagði: {Gleði Guðs yfir hinum iðrandi sem snýr sér til hans er meiri en gleði manns sem hefur tapað úlfalda sínum (með öllu vatni hans) í eyðimörk og allri von um að finna hann aftur og er lagstur niður í skuggann til að deyja úr þorsta fullur örvinglunar þegar hann sér úlfaldann skyndilega fyrir framan sig}[1]




„ Það er engin guð (goðmagn) nema Guð (Allah) og Múhameð er sendiboði (spámaður) Guðs" Letrað fyrir ofan inngang í Mosku..

[1] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2747, og Saheeh Al-Bukhari, #6309.

## Um hvað snýst Kóraninn?



Kóraninn, sem er orðrétt eftir Guði hafður, er meginuppspretta sérhvers múslíma um kenningar og trúariðkun. Í Kóraninum er fjallað um allt það sem kemur mönnum við: visku, kenningar, tilbeiðslu, viðskipti, lög o.s.frv. En meginefni Kóransins er samband Guðs við sköpunarverk sitt. Einnig eru í Kóraninum leiðbeiningar og nákvæm tilsögn um réttlátt samfélag, heiðvirða hegðun og sanngjarnt hagkerfi.

Athugið að Kóraninn opinberaðist Múhameð ﷺ á arabísku einni. Það merkir að allar þýðingar á Kóraninum, hvort sem er á íslensku eða nokkru öðru tungumáli, eru hvorki Kóraninn sem slíkur né útgáfa af honum, heldur er um að ræða þýðingu á merkingu Kóransins. Kóraninn er sem slíkur aðeins til á því tungumáli sem hann opinberaðist á, arabísku.

## Hver var Múhameð spámaður ﷺ?

Múhameð ﷺ fæddist í Mekka árið 570 e.Kr. Þar eð faðir Múhameðs ﷺ dó fyrir fæðingu hans og móðir hans stuttu eftir að hann fæddist ólst hann upp hjá frænda sínum sem var af hinum vel metna Quraysh-ættbálki. Múhameð ﷺ fékk ekki menntun í uppvexti, var ólæs og óskrifandi til dauðadags. Þjóð hans hafði, áður en hann hóf boðun sína sem spámaður, enga þekkingu á vísindum og flestir voru ólæsir og óskrifandi. Þegar hann óx úr grasi fékk hann það orð á sig í samfélaginu að vera sannorður, heiðarlegur, áreiðanlegur, örlátur og einlægur. Hann var svo áreiðanlegur að þeir kölluðu hann Áreiðanlegan.[1] Múhameð ﷺ var

[1] Frá þessu er greint í Mosnad Ahmad, #15078.

mjög trúaður maður og fyrirleit lengst af þá hnignun samfara skurðgoðadýrkun sem viðgekkst í samfélaginu.



Moska Múhameð spámanns ﷺ í Medínu.

Um fertugt fékk Múhameð ﷺ sína fyrstu opinberun frá Guði fyrir tilstilli Gabríels engils. Slíkar opinberanir fékk hann á tuttugu og þriggja ára tímabili og eru þær uppistaðan í Kóraninum.

Eftir að hann byrjaði að vitna í Kóraninn og boða sannleikann sem Guð hafi opinberað honum varð hann og fáliðaðir trúbræður hans fyrir ofsóknum vantrúaðra. Þessar ofsóknir urðu svo grimmilegar að árið 622 bauð Guð þeim ﷺ að flýja land. Flóttinn frá Mekka til borgarinnar Medínu, sem er 260 mílum norðar, markar byrjun tímatals múslíma.

Eftir nokkur ár, leyfðist Múhameð ﷺ og fylgjendum hans að snúa aftur til Mekka og fyrirgáfu þeir óvinum sínum. Þegar Múhameð ﷺ dó, sextíu og þriggja ára að aldri, hafði íslamstrú breiðst út um mestallan Arabíuskagann og um einni öld eftir dauða Múhameðs ﷺ hafði íslamstrú breiðst út frá Spáni í vestri til Kína í austri. Ástæður þess að íslamstrú breiddist svo fljótt og friðsamlega út eru m.a. þær að skilaboðin eru svo skýr og sönn. Íslam boðar trú á einn guð sem er hinn eini guð sem er verðugur þess að vera tilbeðinn.

Múhameð spámaður ﷺ var fullkomið dæmi um heiðarlegan, réttlátan, miskunnsaman, brjóstgóðan, sannsöglan og hugrakkan mann. Hann var hafinn yfir allar illar hvatir, þó að maður væri, og beitti sér fyrir Guð einan og umbun hans í framhaldslífinu. Allar gerðir hans báru ævinlega vitni um guðhræðslu.

## Áhrif útbreiðslu Íslams á þróun vísindanna

Íslam kennir að menn skuli nýta sér skynsemi sína og athyglisgáfu. Aðeins fáeinum árum eftir að Íslam tók að breiðast út blómstraði auðug menning og háskólar döfnuðu. Samruni austrænna og vestrænna hugmynda og nýrra hugmynda og gamalla olli miklum framförum í læknisfræði, stærðfræði, eðlisfræði, stjörnufræði, landafræði, byggingarlist, listum, bókmenntum og sagnfræði. Grundvallarkerfi eins og algebra og arabískir tölustafir ásamt notkun núllsins (sem var forsenda frekari þróunar stærðfræðinnar) bárust til Evrópu miðalda frá yfirráðasvæði múslíma. Flókin tæki, sem gerðu Evrópumönnum kleift að stunda landkönnunarleiðangra sína og voru því forsenda landafundanna miklu, eins og stjörnuhæðarmælirinn (astólab), kvaðrantinn og nothæf sjókort komu einnig úr smiðju múslíma.



Stjörnuhæðarmælir (Astrolabe): Eitt mikilvægasta tækið sem múslímar þróuðu. Hann var einnig mikið notaður á Vesturlöndum fram á nýöld.



Læknar múslíma höfðu mikinn áhuga á skurðlækningum og þróuðu margvísleg áhöld í því skyni eins og sjá má í þessu forna handriti.

## Hverju trúa múslímar um Jesús?

Múslímar bera mikla virðingu fyrir Jesú (friður sé með honum). Þeir telja hann einn mikilvægasta sendiboða Guðs til manna. Kóraninn staðfestir meyfæðinguna og einn kafli Kóransins heitir Maryam (María). Kóraninn lýsir fæðingu Jesú á eftirfarandi hátt:

Englarnir sögðu: „Ó, María, Guð flytur þér fagnaðarboðskap í orði sínu. Nafn hans er Messías, Jesús, sonur Maríu, dáður í þessu lífi og því næst og einn þeirra sem næstir eru Guði. Hann mun tala til fólksins úr vöggu sinni og sem fullvaxta maður og hann er meðal hinna réttlátu” Hún sagði: „Drottinn minn, hvernig má það vera að ég eignist barn þegar ég hef ekki karlmanns kennt? ” Hann svaraði: „Svo mun verða. Guð skapar það sem hann vill. Hvað sem hann ákveður, segir hann einungis: Verði svo! Og það verður. “ (Kóran, 3.45-47)

Fæðing Jesú var kraftaverk og Guðs vilji á sama hátt og Adam var skapaður að Guðs vilja, en átti hann þó hvorki föður né móður. Guð sagði:

Sköpun Jesú má líkja við sköpun Adams. Guð skóp hann af dufti og mælti til hans: “Þú skalt verða!„ (Kóran, 3.59)

Jesús vann mörg kraftaverk í starfi sínu sem spámaður. Guð segir að Jesús hafi sagt:

Ég kem til ykkar með tákn frá Drottni ykkar. Ég móta handa ykkur fuglslíki úr leir, og ég blæs í það og það verður að fugli með leyfi Guðs. Ég lækna þann sem fæddur var blindur og hinn holdsveika, og þann sem dauður er lífga ég með leyfi Guðs. Og ég kunngjöri ykkur hvað þið etið og hvað þið geymið í húsum ykkar. (Kóran, 3.49)

Múslímar trúa því að Jesús hafi ekki verið krossfestur. Það var ætlun óvina hans að krossfesta hann en Guð bjargaði honum og hóf hann til sín. Yfirbragð Jesú var lagt á annan mann. Fjendur Jesú krossfestu þann mann þar sem þeir héldu hann vera Jesú. Guð sagði:

Þeir sögðu: „Við drápum Jesúm, Son Maríu, sendiboða Guðs.”Þeir drápu hann ekki né heldur krossfestu þeir hann, en þeim virtist svo. (Kóran, 4.157)

Hvorki Múhameð né Jesú komu til þess að breyta grundvallarkenningunni um trú á einn Guð sem fyrri spámenn boðuðu heldur fremur til þess að staðfesta hana og blása í hana nýju lífi.[1]

[1] Múslímar trúa því að Guð hafi opinberað Jesú ritið Injeel og að efni þess megi að hluta til finna meðal þess sem Guð kenndi Jesú og er í Nýja testamentinu. En þetta þýðir þó ekki að múslímar trúi Biblíunni eins og hún lítur út nú því sú er ekki hin upprunalega ritning sem Guð opinberaði mönnum. Hinni upprunalegu ritningu hefur verið breytt, við hana hefur verið aukið og hún hefur verið stytt.



„Aksa” moskan í Jerúsalem.

(Ítarefni um Jesús má nálgast með því að smella á hlekkinn: Ítarefni um Jesú.)

## Afstaða Íslams til hryðjuverka

Íslam, trúarbrögð miskunnar, leyfa ekki hryðjuverk. Guð sagði í Kóraninum:

Guð bannar ykkur ekki að sýna þeim góðvild og sanngirni sem hvorki hafa barist við ykkur vegna trúar ykkur eða flæmt ykkur frá heimkynnum ykkar. Guð elskar hina réttlátu. (Kóran, 60.80)

Múhameð spámaður bannaði hermönnum sínum að drepa konur og börn[1] og þetta ráðlagði hann þeim: , „... Grípið ekki til svika, forðist óhóf og drepið ekki ungbörn.” [2] Hann sagði einnig: „Hver sá er drepur þann sem samið hefur við múslíma mun ekki finna angan Paradísar þó hún ilmi í fjörutíu ár.”[3]

Múhameð spámaður bannaði einnig refsingar með eldi.[4]

---

[1] Ritað í Saheeh Muslim, #1744 og Saheeh Al-Bukhari, #3015.
[2] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #1731 og Al-Tirmizi, #1408.
[3] Frá þessu er greint í Saheeh Al-Bukhari, #3166 og Ibn Majah, #2686.
[4] Frá þessu er greint í Abu-Dawood, #2675.

Eitt sinn sagði hann morð aðra mestu syndina[1] og varaði við því að „á dómsdegi yrðu þeir fyrstir dæmdir sem úthellt hafa blóði.[2] “ [3]

Múslímar eru jafnvel hvattir til þess að fara vel með dýr og þeim er bannað að meiða þau. Múhameð ﷺ spámaður sagði eitt sinn: “Konu nokkurri var refsað vegna þess að hún lokaði kött inni þar til hann drapst. Sökum þessa var hún dæmd til Heljar. Hún lokaði hann inni og gaf honum hvorki að éta né drekka og ekki sleppti hún honum lausum svo hann gæti fangað sér skordýr til matar. „[4]

Hann sagði einnig frá manni sem gaf þyrstum rakka að drekka og Guð fyrirgaf honum syndir hans sökum þess góðverks. Spámaðurinn ﷺ var spurður eftirfarandi spurningar: “Sendiboði Guðs, verður okkur það launað að sýna dýrum góðvild? „ Hann svaraði: “Ykkur verður launuð góðvild í garð hverrar skepnu, dýrs eða manns. „ [5]

Þar fyrir utan er múslímum boðið, er þeir leiða dýr til slátrunar, að deyða það þannig að það finni til sem minnstrar hræðslu og þjáningar. Múhameð ﷺ spámaður sagði: “Þegar dýri er  slátrað skal til verksins vanda. Hnífinn skal vel brýna svo sláturdýrið þjáist lítt. „[6]

Í ljósi þessara orða og fleiri íslamskra texta er það hvort tveggja bannað og fyrirlitlegt samkvæmt Íslam og í augum múslíma að sá ótta í hjörtu varnarlausra borgara, að jafna mannvirki við jörðu og limlesta saklausa menn, konur og börn með sprengjum. Trú múslíma er trú friðar, miskunnar og fyrirgefningar og mikill meirihluti þeirra hefur alls ekki komið nálægt þeim voðaatburðum sem kenndir

---

[1] Frá þessu er greint í Saheeh Al-Bukhari, #6871 og Saheeh Muslim, #88.
[2] Með því að drepa eða særa.
[3] Frá þessu er greint í Narrated in Saheeh Muslim, #1678 og Saheeh Al-Bukhari, #6533.
[4] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2422 og Saheeh Al-Bukhari, #2365.
[5] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2244 og Saheeh Al-Bukhari, #2466.
[6] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #1955 og Al-Tirmizi, #1409.

hafa verið múslímum. Ef múslími fremur hryðjuverk er sá hinn sami sekur um að brjóta lög Íslam.

(Fleiri greinar um Íslam og hryðjuverk má nálgast undir hlekknum: Meira um Íslam og hryðjuverk.)

## Mannréttindi og réttlæti í Íslam.

Íslam tryggir margvísleg mannréttindi. Hér á eftir eru tilgreind nokkur þeirra.

Réttur hvers einasta ríkisborgara íslamsks ríkis til lífs og eigna er helgur, hvort sem hann er múslími eða ekki. Heiður manna nýtur einnig verndar í Íslam. Því bannar Íslam að móðga menn eða draga dár að þeim. Múhameð ﷺ spámaður sagði: ,”Sannlega er blóð yðar, eignir og æra friðhelg.„[1]

Kynþáttahatur er ekki liðið í Íslam enda hefur Kóraninn þetta að segja um jafnrétti: ﴿ Þið mannabörn, Vér höfum skapað ykkur karl og konu og skipað ykkur í þjóðir og ættkvíslir svo að þið lærið að þekkja hver annan. Sannarlega er sá göfugastur í augum Guðs sem mestan guðsótta hefur, Sannarlega veit Guð og þekkir allt. ﴾ (Kóran, 49.13)[2]

Íslam hafnar þeirri kenningu að menn eða þjóðir njóti náðar í krafti auðs, valda eða kynþáttar. Guð skapaði alla menn jafna og aðeins er unnt að greina þeirra í milli á grundvelli trúarbragða og trúrækni. Múhameð ﷺ spámaður sagði: „Ó þjóð mín! Guð yðar er einn og forfaðir (Adam) yðar er einn. Arabi er ekki fremri manni af öðrum kynþætti og sá er eigi betri en arabinn. Rauður (eiginlega hvítur með rauðu yfirbragði, rjóður) maður er ekki fremri svörtum og sá svarti er ekki fremri þeim

---

[1] Frá þessu er greint í Saheeh Al-Bukhari, #1739 og Mosnad Ahmad, #2037.
[2] Trúrækinn er sá sem heldur sig frá öllum syndum, vinnur góðverk þau er Guð býður og óttast og elskar Guð.

rauða.[1] En trúrækni greinir þeirra í milli.“[2]

Kynþáttahatur er mikið vandamál í heiminum nú um stundir. Ríku þjóðirnar geta sent mann til tunglsins en ekki komið í veg fyrir að hann hati meðbræður sína eða sláist við þá. Allt frá dögum Múhameðs ﷺ spámanns hefur Íslam verið lýsandi dæmi þess hvernig hægt er að koma í veg fyrir togstreitu milli kynþátta. Ár hvert halda um það bil tvær milljónir múslíma hvaðanæva að úr heiminum í pílagrímsferð (Hajj) til Mekka og kemur þá vel í ljós hið sanna bræðralag allra þjóða og kynþátta í Íslam.



Íslam er trú réttlætis. Guð sagði:

﴾ Guð skipar ykkur að skila því sem þið varðveitið til þeirra sem það eiga og þegar þið dæmið að þið dæmið af réttvísi ﴿ (Kóran, 4.58)

Og hann sagði:

﴾ Ef tveir flokkar trúaðra deila, þá leitið sættir með þeim. Ef annar hvor flokkurinn beitir hinn ofríki, þá berjizt við þann sem á leitar, þar til hann hlítir dómi Guðs. Þegar hann lætur segjast, semur þú frið með þeim af sanngirni og réttlæti, því Allah elskar hina réttlátu. ﴿ (Kóran, 49.9)

Við eigum einnig gera þeim er við hötum rétt til. Guð sagði:

﴾ Látið ekki fjandskap annarra aftra ykkur frá réttlæti. Verið réttlát, það er guðrækni næst. ﴿ (Kóran, 5.8)

---

[1] Litirnir sem nefndir eru í þessum umælum spámannsins ﷺ eru aðeins til dæmis. Þetta þýðir að í Íslam getur enginn kallast öðrum fremri sökum litarafts síns, hvort sem það er hvítt, svart, rautt eða annars konar.
[2] Frá þessu er greint í Mosnad Ahmad, #22978.

Múhameð spámaður sagði: ,,Ó þjóð mín! Varist órétt[1] því vegna hans verður myrkur á dómsdegi.“[2]

Og þeir sem sjá ekki réttlætinu fullnægt (þ.e. fá ekki það sem þeir eiga með réttu) í lifanda lífi munu sjá það á dómsdegi, eins og spámaðurinn sagði: ,,Á dómsdegi ná þeir rétti sínum er hann eiga skyldan (og ráðin verður bót á óréttlæti) ...“[3]

## Staða kvenna í Íslam



Í Íslam hafa konur, giftar eða ógiftar, full einstaklingsréttindi. Þær eiga rétt á að halda eða ráðstafa eignum sínum og tekjum án afskipta nokkurs fjárhaldsmanns (föður, eiginmanns eða neins annars). Réttur kvenna er að kaupa, selja og gefa, hvort heldur gjafir eða til ölmusu, og þær geta eytt reiðufé sínu sem þær lystir. Brúðguminn kaupir hana verði en fjárhæðin rennur til hennar eigin persónulegu nota og hún heldur ættarnafni sínu en tekur ekki upp ættarnafn eiginmanns síns.

Íslam hvetur eiginmann til þess að koma vel fram við konu sína, eins og Múhameð spámaður sagði: ,,Ágætastir ykkar eru þeir sem best reynast konum sínum.“[4]

Mæður eru hátt haldnar í Íslam. Íslam kennir að þeim skuli menn reynast best. Maður nokkur kom til Múhameðs spámanns og sagði: ,,Ó, sendiboði Guðs! Hver er míns góða félagsskapar mest verður?“ Spámaðurinn svaraði: ,,Móðir þín.“ Maðurinn spurði: ,,Síðan hver?“ Spámaðurinn svaraði: ,,Þar á eftir móðir þín.“ Maðurinn spurði enn: ,,Síðan hver?“ Spámaðurinn svaraði: ,,Þar á eftir

[1] Þ.e. kúgun, misrétti eða ranglæti.
[2] Frá þessu er greint í Mosnad Ahmad, #5798 og Saheeh Al-Bukhari, #2447.
[3] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2582 og Mosnad Ahmad, #7163.
[4] Frá þessu er greint í Ibn Majah, #1978 og Al-Tirmizi, #3895.

móðir þín.“ Enn spurði maðurinn: ,,Síðan hver?“ Spámaðurinn ﷺ svaraði: ,,Því næst faðir þinn.“[1]

Nálgast má ítarefni um konur í Íslam undir hlekknum: Ítarefni um konur í Íslam.

## Fjölskyldan í Íslam

Fjölskyldan, grunneining menningarsamfélagsins, á nú á tímum mjög undir högg að sækja. Íslamskt fjölskyldumynstur byggir á hárfínu jafnvægi réttar eiginmanns, eiginkonu, barna og ættingja og þess háttar vel grundað fjölskyldumynstur elur af sér óeigingirni, örlæti og ást. Friðurinn og öryggið sem kjarnafjölskylda í svo góðu jafnvægi hefur upp á að bjóða er ómetanlegt og talið ómissandi andlegum þroska hvers fjölskyldumeðlims og ef börnin og stórfjölskyldan eru höfð í hávegum leitar allt þjóðfélagið jafnvægis.

## Hvernig koma múslímar fram við aldraða?

Elliheimili finnast varla í hinum íslamska heimi. Litið er á það sem drengskaparbragð að annast foreldra sína á erfiðasta æviskeiði þeirra. Álagið sem því fylgir er talið blessun og tækifæri til aukins sálarþroska. Í Íslam er ekki talið nóg að menn biðji fyrir foreldrum sínum heldur verða þeir að sýna þeim óendanlega samúð og minnast þess að er þeir voru sjálfir varnarlaus börn létu foreldrar þeirra þá ævinlega ganga fyrir. Mæður eru sérstaklega í heiðri hafðar. Múslímar eru foreldrum sínum í ellinni miskunnsamir, góðhjartaðir og óeigingjarnir.

Umönnun foreldra er samkvæmt Íslam mikilvægasta skyldan næst á eftir bæninni og hún er þeirra réttur. Það er álitið fyrirlitlegt að láta það hafa áhrif á sig þegar fólk, sem ekkert getur að því gert, gerist erfitt með aldrinum.

[1] Frá þessu er greint í Saheeh Muslim, #2548 og Saheeh Al-Bukhari, #5971.

Guð sagði:

“Drottinn hefur fyrirskipað að þú tilbiðjir engan nema hann og að þú sért foreldrum þínum góður. Komist þau á gamals aldur á þínum vegum, annað eða bæði, þá sýndu þeim aldrei vansæmd eða átölur, heldur talar til þeirra með virðingu og hlýjum orðum. Sýndu þeim auðmýkt og blíðu og segðu: “Drottinn, veru þeim miskunnarsamur svo sem þau ólu önn fyrir mér ungum. „ (Kóran, 17.23-24)

## Hinar fimm stoðir Íslams.

Tilvera múslíma byggist á hinum fimm stoðum Íslams. Þær bera vitni trú, bæn, ölmusu eða “zakat„ (framfærslu fátækra), föstu í Ramadanmánuði og pílagrímsferðar til Mekka þeirra sem það geta einu sinni ævinnar.

## 1) Trúarjátning

Trúin er játuð með því að mæla eftirfarandi orð af fullri sannfæringu: ,,La ilaha illa Allah, Muhammadur rasoolu Allah.“ Þetta þýðir: ,,Enginn er sannur guð (guðdómur) nema Guð (Allah) og Múhameð er sendiboði (spámaður) Guðs.“ Fyrri hlutinn, ,,enginn er sannur guð nema Guð“ þýðir að enginn sé verður tilbeiðslu nema Guð einn, og að Guð eigi sér hvorki félaga né son. Trúarjátningin sem nefnist Shahada er einföld setning og þeim er vill snúast til Íslams nægir að mæla hana af fullri sannfæringu til þess. Trúarjátningin er mikilvægasta stoð Íslam.

## 2) Bæn

Múslímar biðjast fyrir fimm sinnum dag hvern. Hvert skipti tekur ekki nema fimm mínútur. Íslömsk bæn tengir saman trúmanninn og Guð. Milligöngumenn eru engir á milli Guðs og hins trúaða.

Í bæninni finna menn til innri friðar, gleði og hughreystingar og velþóknunar Guðs í garð þess er biður. Múhameð spámaður sagði: ,,Bilal, kallaðu (fólkið) til bæna, látum það verða okkur til hughreystingar.“[1] Bilal var einn félaga Múhameðs og

[1] Frá þessu er greint í Abu-Dawood, #4985 og Mosnad Ahmad, #22578.

honum hafði verið falin sú skylda á hendur að kalla fólk til bæna.

Beðist er fyrir í dögun, hádegi, miðdegis, við sólsetur og náttmál. Múslími getur beðist fyrir nánast hvar sem er, úti á akri, inni á skrifstofu, í verksmiðju eða í háskóla.

(Ítarefni um hvernig skuli bera sig að því að biðja má finna undir hlekknum Hvernig skal bera sig að því að biðja eða í ritinu „A Guide to Salat (Prayer) " eftir M. A. K. Saqib.)

## 3) Ölmusa Zakat (framfærsla fátækra)



Allt tilheyrir Guði. Auðæfi eru því aðeins í vörslu manna. Frummerking orðsins zakat er hvoru tveggja skírn, þ.e. andlegur þvottur, og vöxtur. Að gefa zakat merkir að gefa ákveðinn hundraðshluta vissra eigna til ákveðinna stétta þurfandi manna. Hundraðshlutinn, tvö og hálft prósent, er tekinn af upphæð sem samsvarar um það bil 85 grömmum gulls, í gulli, silfri eða reiðufé, og hefur verið í eigu manns í eitt tunglár. Eignir manna eru skírðar með því að lögð er til hliðar lítil upphæð handa þurfamönnum og líkt og þegar jurtir eru grisjaðar bætir þessi niðurskurður á innstæðunni vaxtarskilyrðin. Hverjum og einum er þó frjálst að gefa eins mikið og honum eða henni sýnist til ölmusu.

## 4) Fasta í Ramadanmánuði



Ár hvert, í mánuðinum Ramadan,[1] fastar sérhver múslími frá dögun til sólarlags og neitar sér þá um mat, drykk og kynlíf.

Þó fastan sé bráðholl heilsunni er fremur litið á hana sem leið til þess að efla andlega líðan. Með því að neita sér um lífsins gæði, þó ekki nema í stuttan tíma, nær sá sem fastar

[1] Ramadanmánuður er níundi mánuður íslamska dagatalsins (sem byggt er á göngu tungls en ekki sólar).

að finna til sannrar samkenndar með þeim sem líða skort auk þess sem önd hans eflist.

## 5) Pílagrímsferð til Mekka

Ef fjárhagur og heilsa leyfir ber hverjum og einum skylda til að fara í pílagrímsferð (Hajj) til Mekka einu sinni á ævinni. Um það bil tvær milljónir manna halda til Mekka ár hvert hvaðanæva að úr heiminum. Til Mekka sækir að vísu fjöldi gesta árið um kring, en einu sinni á ári, í tólfta mánuði hins íslamska dagatals, er farin Hajj. Pílagrímar (karlar) klæðast sérstökum einföldum klæðum sem má út allan mun stéttar og menningar þannig að allir standa þeir jafnir fyrir Guði.



Pílagrímar biðjast fyrir í Haram moskunni í Mekka. Í mosku þessari er Kaaba (svarta byggingin á myndinni) sem múslímar snúa að er þeir biðjast fyrir. Guð bauð spámönnunum Abraham og syni hans Ísamel að reisa Kaaba svo þar gætu menn beðist fyrir.

Ein sú helgiathöfn sem fylgir Hajj er að ganga sjö sinnum umhverfis Kaaba og sjö sinnum milli tveggja hóla, „Safa" og „Marwa" eins og Hagar gerði í leit sinni að vatni. Síðan safnast pílagrímarnir saman við "Arafa"[1] til að biðja Guð þess sem þá

[1] Um það bil 24 kílómetra frá Mekka.

lystir og um fyrirgefningu hans og oftar en ekki er litið á þá athöfn sem forsmekk dómsdags.

Hajj lýkur með hátíð, „Eid Al-Adha”, þar sem menn fagna með bænagjörð. Sú hátíð og „Ei al-Fitir” veisla haldin í lok Ramadan, eru hinar tvær árlegu hátíðir dagatals múslíma.

## Íslam í Bandaríkjunum

Erfitt er að alhæfa um bandaríska múslíma. Sumir eru trúskiptingar en aðrir innflytjendur, verkamenn eða læknar. Trúin heldur fjölbreyttu samfélagi þeirra saman og fjölmargar moskur sem finna má um öll Bandaríkin styrkja það enn frekar.

Múslímar fluttust snemma til Norður Ameríku. Þegar á átjándu öld bjuggu margir múslímar í Norður Ameríku.

Fjölmargir Bandaríkjamenn hafa snúist til Íslams. Þeir eru af ýmsum stéttum, ríkir, fátækir, menntaðir og ómenntaðir. Núna eru um það bil fimm og hálf milljón múslíma í Bandaríkjunum.[1]

[1] The World Almanac and Book of Facts 1996, Famighetti, bls. 644.

**Hingað kominn Bismilla ir rahman ir rahim**

Fyrir Frekari upplýsingar um Íslam

Ef þú vilt fá meiri upplýsingar um Íslam, eða ef þú hefur einhverjar spurningar eða athugasemdir. Og einnig ef þú hefur áhuga að fá fleiri afrit af þessari bók. Þá er ykkur velkomið að heimsækja heimasíðu bókarinnar http://www.islam-brief-guide.org eða hafa samband við:

1) Bandaríkin

Islamic Assembly of North America
3588 Plymouth Road, Suite # 270,
Ann Arbor, MI 48105, USA
Tel.: (734) 528-0006 - Fax: (734) 528-0066
E-mail: IANA@IANAnet.org

Islamic Foundation of America
PO Box: 3415, Merrifield, VA 22116, USA
Tel.: (703) 914-4982 - Fax: (703) 914-4984
E-mail: info@ifa.ws

Understanding Islam Foundation
11153 Washington Pl., Culver City,
CA 90232, USA
Tel. and Fax: (301) 558-9865
E-mail: info@understandingislam.us

World Assembly of Muslim Youth
PO Box: 8096, Falls Church,
VA 22041-8096, USA
Tel.: (703) 820-6656 - Fax: (703) 783-8409
E-mail: support@wamyusa.org

Islamic Information Institute
of Dar-us-Salam
5301 Edgewood Rd., College Park,
MD 20740-4623, USA
Tel.: (301) 982-9463 - Fax: (301) 982-9849
E-mail: iiid@islamworld.net

Al Jumuah Magazine
PO Box: 5387, Madison,
WI 53705-5387, USA
Tel.: (608) 277-1855 - Fax: (608) 277-0323
E-mail: info@aljumuah.com

2) Kanada

Islamic Information & Da’wah Center International
1168 Bloor Street West, Toronto,
Ontario M6H 1N1, Canada
Tel.: (416) 536-8433 - Fax: (416) 536-0417
E-mail: comments@islaminfo.com

3) England

l-Muntada Al-Islami Centre

7 Bridges Place, Parsons Green,

London SW6 4HW, UK

Tel.: 44 (0207) 736 9060

Fax: 44 (0207) 736 4255

E-mail: muntada@almuntada-alislami.org

Jam'iat Ihyaa' Minhaaj Al-Sunnah

PO Box: 24, Ipswich, Suffolk IP3 8ED, UK

Tel. and Fax: 44 (01473) 251578

E-mail: mail@jimas.org

4) Saudí Arabía

World Assembly of Muslim Youth

PO Box: 10845, Riyadh 11443, Saudi Arabia

Tel.: (966-1) 464-1669 - Fax: (966-1) 464-1710

E-mail: info@wamy.org

5) Egypt

Conveying Islamic Message Society

P.O. Box 834

Alexandria

Egypt

www.islamic-message.net

## Ábendingar og athugasemdir um bókina

Ef þú hefur einhverjar vísbendingar, uppástungur eða athugasemdir. Eða ef þú vilt fá frekari upplýsingar um Íslam. Eða ef þér vantar hjálp við að taka Íslam sem trú þína, þá er þér velkomið að senda tölvupóst á eftirfarandi tölvupóstföng:

info@islam-guide.com

eða til höfundar bókarinnar  I. A. Ibrahim at:

ib@islam-guide.com

**www.islamic-invitation.com**

# Tilvísanir


Ahrens, C. Donald, 1988. Meteorology Today. 3. útg. St. Paul: West Publishing Company.

Anderson, Ralph K., and others. 1978. The Use of Satellite Pictures in Weather Analysis and Forecasting. Geneva: Secretarial of the World Meteorological Organization.

Anthes, Richard A., John J. Cahir, Alistair B. Fraser, and Hans A. Panofsky. 1981. The Atmosphere. 3. útg. Columbus: Charles E. Merrill Publishing Company.

Barker, Kenneth, and others. 1985. The NIV Study Bible, New International Version. Grand Rapids, Michigan: Zondervan Publishing House.

Bodin, Svante. 1978. Weather and Climate. Poole, Dorest: Blandford Press Ltd.

Cailleux, Andre. 1968. Anatomy of the Earth. London: World University Library.

Couper, Heather; and Nigel Henbest. 1995. The Space Atlas. London: Dorling Kindersley Limited.

Davis, Richard A., Jr. 1972. Principles of Oceanography. Don Mills, Ontario: Addison-Wesley Publishing Company.

Douglas, J. D.; and Merrill C. Tenney. 1989. NIV Compact Dictionary of the Bible. Grand Rapids, Michigan: Zondervan Publishing House.

Elder, Danny, and John Pernetta. 1991. Oceans. London: Mitchell Beazley Publishers.

Famighetti, Robert. 1996. The World Almanac and Book of Facts 1996. Mahwah, New Jersey: World Almanac Books.

Gross, M. Grant. 1993. Oceanography, a View of Earth. 6. útg. Englewood Cliffs: Prentice-Hall, Inc.

Hickman, Cleveland P., and others. 1979. Integrated Principles of Zoology. 6. útg. St. Louis: The C. V. Mosby Company.

Al-Hilali, Muhammad T., and Muhammad M. Khan. 1994. Interpretation of the Meanings of The Noble Quran in the English Language. 4. útg. endurskoðuð. Riyadh: Maktaba Dar-us-Salam.

The Holy Bible, Containing the Old and New Testaments (Revised Standard Version). 1971. New York: William Collins Sons & Co., Ltd.

Ibn Hesham, Abdul-Malek. Al-Serah Al-Nabaweyyah. Beirut: Dar El-Marefah.

The Islamic Affairs Department, The Embassy of Saudi Arabia, Washington, DC. 1989. Understanding Islam and the Muslims. Washington, DC: The Islamic Affairs Department, The Embassy of Saudi Arabia.

Kuenen, H. 1960. Marine Geology. New York: John Wiley & Sons, Inc.

Leeson, C. R., and T. S. Leeson. 1981. Histology. 4. útg. Philadelphia: W. B. Saunders Company.

Ludlam, F. H. 1980. Clouds and Storms. London: The Pennsylvania State University Press.

Makky, Ahmad A., and others. 1993. Ee'jaz al-Quran al-Kareem fee Wasf Anwa' al-Riyah, al-Sohob, al-Matar. Makkah: Commission on Scientific Signs of the Quran and Sunnah.

Miller, Albert, and Jack C. Thompson. 1975. Elements of Meteorology. 2. útg. Columbus: Charles E. Merrill Publishing Company.

Moore, Keith L., E. Marshall Johnson; T. V. N. Persaud, Gerald C. Goeringer, Abdul-Majeed A. Zindani, and Mustafa A. Ahmed. 1992. Human Development as Described in the Quran and Sunnah. Makkah: Commission on Scientific Signs of the Quran and Sunnah.

Moore, Keith L., A. A. Zindani, and others. 1987. Al-E'jaz al-Elmy fee al-Naseyah (The scientific Miracles in the Front of the Head). Makkah: Commission on Scientific Signs of the Quran and Sunnah.

Moore, Keith L. 1983. The Developing Human, Clinically Oriented Embryology, With Islamic Additions. 3. útg. Jeddah: Dar Al-Qiblah.

Moore, Keith L., and T. V. N. Persaud. 1993. The Developing Human, Clinically Oriented Embryology. 5. útg. Philadelphia: W. B. Saunders Company.

El-Naggar, Z. R. 1991. The Geological Concept of Mountains in the Quran. 1. útg. Herndon: International Institute of Islamic Thought.

Neufeldt, V. 1994. Webster's New World Dictionary. Third College Edition. New York: Prentice Hall.

The New Encyclopaedia Britannica. 1981. 15. útg. Chicago: Encyclopaedia Britannica, Inc.

Noback, Charles R., N. L. Strominger, and R. J. Demarest. 1991. The Human Nervous System, Introduction and Review. 4. útg. Philadelphia: Lea & Febiger.

Ostrogorsky, George. 1969. History of the Byzantine State. Translated from the German by Joan Hussey. Endurskoðuð útg. New Brunswick: Rutgers University Press.

Press, Frank, and Raymond Siever. 1982. Earth. 3. útg. San Francisco: W. H. Freeman and Company.

Ross, W. D., and others. 1963. The Works of Aristotle Translated into English: Meteorologica. 3. bindi. London: Oxford University Press.

Scorer, Richard, and Harry Wexler. 1963. A Colour Guide to Clouds. Robert Maxwell.

Seeds, Michael A. 1981. Horizons, Exploring the Universe. Belmont: Wadsworth Publishing Company.

Seeley, Rod R., Trent D. Stephens, and Philip Tate. 1996. Essentials of Anatomy & Physiology. 2. útg. St. Louis: Mosby-Year Book, Inc.

Sykes, Percy. 1963. History of Persia. 3. útg. London: Macmillan & Co Ltd.

Tarbuck, Edward J., and Frederick K. Lutgens. 1982. Earth Science. 3. útg. Columbus: Charles E. Merrill Publishing Company.

Thurman, Harold V. 1988. Introductory Oceanography. 5. útg. Columbus: Merrill Publishing Company.

Weinberg, Steven. 1984. The First Three Minutes, a Modern View of the Origin of the Universe. 5. prentun. New York: Bantam Books.

Al-Zarkashy, Badr Al-Deen. 1990. Al-Borhan fee Oloom Al-Quran. 1. útg. Beirut: Dar El-Marefah.

Zindani, A. A. This is the Truth (video tape). Makkah: Commission on Scientific Signs of the Quran and Sunnah.

Númerakerfi á mismunandi hadíðum

Númerakerfinn sem notuð eru á Hadíðum[1] sem nefnd eru í þessari bók eru eftirfarandi:

- Saheeh Muslim: samkvæmt númerakerfi Muhammad F. Abdul-Baqy.
- Saheeh Al-Bukhari: samkvæmt númerakerfi Fath Al-Bari.
- Al-Tirmizi: samkvæmt númerkerfi Ahmad Shaker.
- Mosnad Ahmad: samkvæmt númerakerfi Dar Ehya’ Al-Torath Al-Araby, Beirut.
- Mowatta’ Malek: samkvæmt númerakerfi Mowatta’ Malek.
- Abu-Dawood: samkvæmt númerakerfi Muhammad Muhyi Al-Deen Abdul-Hameed.
- Ibn Majah: samkvæmt númerakerfi Muhammad F. Abdul-Baqy.
- Al-Daremey: samkvæmt númerakerfi Khalid Al-Saba Al-Alamy og Fawwaz Ahmad Zamarly.

[1] Hadeeth (hadíða) er staðfest frásögn rituð af fylgisveinum spámanninum Múhammeð ﷺ af því sem hann sagði, gerði og samþykkti.